# LÆKNÍNGA-KVER,

SAMIÐ AF

*JÓNI HJALTALÍN,*

DR. MEDICINAE ET CHIRURGIAE.

---

PRENTAÐ Á KOSTNAÐ

ENS ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGS.




---

KAUPMANNAHÖFN.

í *S. L. Möllers* PRENTSMIÐJU.

1840.

FYRSTA

KÉNNARA SÍNUM Í LÆKNISFRÆÐINNI,

LANDLÆKNI

# JÓNI ÞORSTEINSSYNI,

TILEINKAR HÖFUNDURINN

VINSAMLEGAST.

RIT ÞETTA.

*Jeg veit hve illa Íslendingar eru farnir í bráðum lífshættum, vegna fæðar á læknum; gæti kver þetta bætt eitthvað úr þessu, þækti mèr starfi minn fulllaunaður, en því að eins mun jeg gèta gjört mèr þá von, að jeg megi vænta þess, að landar mínir breyti að orðum mínum með nákvæmni og athygli. Jeg hafði opt tekið eptir því hve lýsingarbrèfum á sjúkdómum var illa fyrir komið, og hvörsu bágt var að komast niður í þeim, og mèr þókti þessvegna nauðsynlegt að sýna fólki hvörnig spyrja ætti sjúklinga, og lýsa sjúkdómum fyrir læknum; eigi var mèr heldur ókunnugt, að Íslendingar hafa eigi hingað til haft mikla trú á dygðum vatnsins, og dæmi vissi jeg til, að háð var gjört að góðum lækni fyrir það, að hann ráðlagði fólki að drekka kaldt vatn þar sem það í raun rèttri átti vel við. Nú með því að vatns lækningarnar* (Vandkurer)*, eru ár frá ári að verða almennari erlendis, datt mèr í hug að reyna, hvört ekki væri vegur að koma löndum mínum til að hafa traust á þeim, og það eina má jeg í þessu efni sjálfur álíta mèr áfátt, að jeg hefi ekki enn þá af egin reynslu haft tæki á að leiða í ljós kosti ölkèldnanna á Íslandi.*

*Þar sem jeg seinast í kveri þessu minnist á dauðamerki, má jeg að vísu játa að jeg hefi orðið að vera heldur stuttorður, vegna leingdar kversins, sem var orðin meiri enn bókmentafèlagið öndverðlega hafði ákvarðað; engu að síður munu þar samt talin öll hin hellstu dauðamerki og óhætt að treysta ef eigi er útaf brugðið. Jeg óska að landar mínir vildu hætta hinum gamla vananum að veita dauðum strax nábjargir, því með því er loku fyrir skotið að loptið komist að andrúminu, og lífga megi manninn ef hann liggur í djúpu dái* (Skindöd); *það er nógur tími til að gjöra þetta þá er dauðastirðleikinn* (Rigor cadaverosus) *er um liðinn, og þá gèta menn líka fyrst verið fullvissir um, að þeir eigi drepi hálfdauða menn með þessu handtaki.*

*Að endingu vil jeg gèta þess, að nýgjörfínga sem finnast í kveri þessu hefi jeg við haft að ráðum þeirra landa minna hèr, er jeg álít einna best að sèr í íslendsku, og jeg vona þessvegna að menn ekki hneigslist á þeim.*

*Kaupmannahöfn í April* 1840.

*J. Hjaltalín.*

---

## Frá því, hvörsu spyrja skuli sjúklínga og lýsa sjúkdómum fyrir læknum.

Fyrst skal spyrja hinn veika að nafni hans og aldri, hvörrar stèttar hann sè og hvör störf hann hafi á hendi; þvínæst skal nákvæmlega skoða vaxtarlag hans, og taka til greina, hvört hann er þróttmikill eða veiklega vaxinn, feitur og holdugur, eða magur og í grennra lagi. Síðan skal spyrja sjúklínginn hvörsu lengi hann hafi verið veikur, og hvað að honum gángi. Nú verða spurníngarnar á ýmsa vegu eptir ásigkomulagi sjúklíngsins; almennt er þó að spyrja hann fyrst að því, hvört hann hafi kennt köldusóttar, hvönær hún hafi byrjað og með hvörjum hætti, hvört hún vesni er álíður daginn, eða hvört hún hverfi ástundum og komi svo aptur. Að nokkrum tíma fráliðnum skal svo spyrja hinn sjúka mann, hvört bil þau, er líða á milli köldufloganna, sèu jafnlaung, hvönær flogin komi og hve lengi standi á þeim og hvönær þau linni; ekki má heldur gleyma að grenslast eptir því, hvört hinn veiki sè með fullu ráði í köldufloguunum, eða hvört hann hafi höfuðóra meðan á þeim stendur, eða eptir á. Svo skal spyrja sjúklínginn hvört hann finni til

verkja og hvar þeir sèu; ríður einkum á að tilgreina nákvæmlega verkjar staðinn og hvörsu honum er háttað, hvört það sè sár stíngandi verkur er heldur sèr föstum á einum stað og er sem knífur stæði í, eða hvört enum veika finnst hann fremur skèra og rífa; skal svo gèta þess hvört verkurinn sitji jafnan fastur á sama stað, eður hann sè á flökti, og svo hvört hann flögri; þá búið er að spyrja sjúklíng að þessu skal gèfa gætur að hörundinu og ásigkomulagi þess; og skal þá taka eptir því, hvört sjúklíngur svitni og hvörnig sveitanum er varið, eður hvört hörundið sè þurt og heitt, eða sem brennandi átektar; því næst skal gèfa gætur að lífæðinni og slætti hjartans, og taka nákvæmlega eptir því, hvört æðin bærist títt eður hart eða seint og linlega, og hvört mislaung bil verða á milli. Sá er almennur háttur lækna, er þreyfa skal á lífæðinni, að leggja þrjá fíngurgóma (á vísifíngri, lángafíngri og baugfíngri) ofaná æðina við geislúnginn (*radius*) nærri úlfliðnum, því þar finnst best til hennar; en svo má best finna hvörsu hjartað berst, að leggja flatann lófa á hjartastað. Að þessu loknu varðar það einkar miklu að gèfa gaum að ástandi magans og inniblanna, skal þá fyrst spyrja hinn veika hvörsu matarlyst hans sè varið, hvört hann gèti etið eða hvört honum bjóði við allri fæðu eður einúngis einstaka mat, sömuleiðis skal hann þá aðspurður, hvört hann sæki þorsti eður eigi, og hvört hann hafi bitrann smekk eða nokkurt annað óeðlilegt bragð í munninum. Nú skal einnig gèfa gætur að túngunni, og lýsa því nákvæmlega hvört hún sè

hrein eður óhrein, og sè hún óhrein og þakin miklu slími, skal þess og gètið hvörnig það sè útlits, og hvört hún sè þur eða rök átekta; þessu næst skal fara höndum um kvið sjúklíngi, og þrýsta með flötum lófa neðanverðt við flagbrjóskið, til að vita hvört hann hafi verki eður eymsli í maganum; þannig skal og kanna allann kviðinn og síðurnar neðantil undir rifjahylkinu, og skal þess nákvæmlega gètið í lýsíngu sjúkdómsins ef sjúklíngur finnur til eymsla á nokkrum stað eða sárra verkjarstíngja. Nákvæmlega skal þess gètið og innt eptir því, hvörnig hægðum hinns veika sè varið, bæði til baks og kviðar, því það varðar miklu hvört þær fara að eðli sínu eður ekki. Hafi sjúklíngar doðasótt (*Typhus*), þá er það ekki sjaldgæft að blaðran verður magnlaus, svo hinn veiki gètur ekki látið þvag sitt. Það ríður mjög á að gæta þessa, og er því ætíð best, er þetta er að óttast, að fara höndum um kviðinn ofanverðt við lífbeinið, til að finna hvört blaðran búngi út eður ekki. Að lokunum skal spyrja um svefn sjúklíngsins, og skal þess ætíð gètið í skírslu til lækna, hvört hinn veiki hafi mjög lítið eða alls ekki sofið, eða hvört hann hafi haft draumóra eður ofsjónir.

Hafi maður slasast, marið sig, beinbrotið eða skorið, skal nákvæmlega lýsa meiðslunum og hvar þau sèu á kroppnum, ásamt öðrum sóttarferlum er þeim kunna vera samfara. Þegar einhvörr limur hefir gengið úr liði, verður ætíð að skíra frá því, á hvörn hátt það hafi tilborið, og hvörnig limurinn sè skèkktur úr liðamótun-

um, hvört heldur framávið eður apturávið, innávið eður útávið.

Í lýsíngu kvenna-sjúkdóma skal þess ætíð gètið, hvört þær sèu giptar eður ógiptar, hvört þær hafi átt börn eður ekki, og hvörnig tíðaföllum þeirra sè varið.

Þá búið er að gèta ástands sjúklíngsins á þann hátt sem nú er frásagt, skal í enda lýsíngarinnar skíra frá tilefni sjúkdómsins, og hvörsu opt sjúklíngur hafi verið veikur að undanförnu, og með hvörjum hætti veikindi hans hafi verið.

Þá er lýsa skal sinnisveiki, verður að gèfa gætur að hvört hinn sjúki sè algjörlega ruglaður, eður hafi einúngis einstaka grillur, og ef hann er algjörlega ruglaður, þá hvört hann líka sè óður, eða hvört hann fari sèr hægt, og leitist eigi við að gjöra neinum mein. Sè hinn sinnisveiki ekki algjörlega viti firrtur, en lætur í ljósi einstakar grillur og þó þrálátar, þá verður að komast eptir, hvörnig þeim sè háttað og hvörsu lengi hann muni hafa haft þær. Þá er lýsa skal sinnisveiki fyrir læknum, ríður öllu fremur á að komast eptir og gèta um tilefni hennar hjá sjúklínginum.

---

# Um Vatnið

## og hvörsu það megi nota sem læknismeðal við margskonar utan- og innan-meinsemdum.

Á dögum Hippókratesar[1]) lækn's, notuðu menn vatnið við ýmsum sjúkdómum. Celsus (merkislæknir með Rómverjum) ræður opt til þess við mörgum veikindum. Sama gjörði og Areteifur læknir frá Kappadókíu, og margir aðrir nafnfrægir læknar í fornöld. Þegar læknisvísindin féllu í dá á páfaöldunum, ásamt flestum öðrum fræðum, gleymdust einnig kostir vatnsins; en jafnskjótt og læknisfræðin kom á gáng aptur, fóru menn að nota sèr vatnið sem læknismeðal, og urðu þá köldu böðin einkum nafnfræg í fyrstu. Á síðustu öld vóru margar dygðir vatnsins ennþá ókunnar, og ýmsum læknum, er um þær mundir rituðu afarlángar meðalaskrár *(Recept)*, þótti lítið varið í eintómt vatnið. Þá er menn fóru nákvæmar að ransaka úr hvörjum frumefnum líkami mannsins væri tilbúinn, komust náttúruspekíngar þessarar aldar að því, að frumefni vatnsins mindaði mestan hluta vökva þeirra sem finnast í líkamanum, og varð það þessvegna að álíta ómissandi til viðurhalds þeirra. Eptir þetta fóru menn nú smámsaman að halda meira uppá vatnið, og nú um nokkur ár er það orðið almennt, að lækna fjölda

---

[1]) Hippokrates hèt nafnfrægur læknir með Grikkjum, og kallast hann almennt nu á tímum Frumhöfundur læknisfræðinnar. Hann varð 104ra ára gamall og lèst herumbil 460 árum fyrir burð Krists.

sjúkdóma með eintómu vatni. Mörgum mun nú þykja þetta kátlegt, en það er satt eigi að síður, að vatnið er ómissandi læknismeðal, og má lækna fjölda sjúkdóma með því einusaman ef rètt er að farið. Læknirinn Schnitzlein frá Munken, höfuðborginni á Bæaralandi, hefir nýlega látið prenta lángt rit er sannar þetta, og fleiri hafa ritað um hið sama.

Þegar vatnið er haft til lækrínga, þá varðar miklu hvörsu því er varið og hvert að haft er I. kaldt vatn, II. heitt vatn, eður III. sjóðandi vatn.

I. Kalda vatnið má vera með tvennu móti, annaðhvört *a)* ískaldt, og vantar þá næstum ekkèrt á að það frjósi, reki menn þá ofaní það hitamæli Raums (Reaumurs) vísar hann á 0 rimina, eða *b)* kaldt, og heitir það almennt svo, uns ilur þess nær 15du riminni á hitamæli Raums.

Kalda vatnið er margskonar og eru þessar enar helstu tegundir þess:

1) Uppsprettuvatn. Svo kallast vatn það er sprettur upp úr jörðu á ýmsum stöðum frá vatnsæðum hennar. Uppsprettuvatn er optastnær hreint og tært, einkum sè lindin á vall-lendi eður á fjöllum uppi. Sè hún í mýrum (dýavatn), er vatnið optastnær óhreinna, og er þá allopt að því járnláarbragð eður ýmiss annarr óþægilegur smekkur, er kèmur af ýmsum jarðartegundum eða málmverum, sem eru komnar saman við vatnið.
2) Lækjavatn, heitir vatn það er finnst í lækjum, sem koma frá uppsprettum eða vötnum. Það fer mjög eptir uppsprettunni

hvört vatn þetta er gott eður eigi, mikið er og komið undir farvegum lækjanna.

3) Fljótavatn. Sjaldan er vatnið eins hreint í mjög stórum ám og í lækjunum; því auk þess að optastnær er jökulvatn í enum stærri ánum, þá berja þær allopt á leir og moldarbökkum, og eru því tíðum gruggugar.

4) Jökulvatn. Lækir og ár sem koma ofanúr jöklum eru optast móhvítir á lit, vatnið í þeim er ætíð mjög kaldt og opt óhreint. Þegar hafa þarf kaldt vatn við utanmeinum, er jökulvatnið einkar gott, því það er kaldara enn nokkurt annað vatn.

5) Mýravatn, tjarnavatn. Vatn það sem er í mýrarpollum og smátjörnum, er sjaldan hreint. Optastnær er að því járnláarbragð eða einhvörr annarr ósmekkur, opt finnast og í því brúnklukkur, svo það er vart drekkandi, nema brýn naudsyn beri til.

6) Sjóvatn, sjór. Sjórinn er ekki annað enn vatn blandað miklu salti; hann er ódrekkandi sem allir vita, og má taka að eins lítið af honum í einu til lækninga, annaðhvört til að fá betri hægðir, eður, ef meira er tekið, til búkhreinsunar. Nokkrir hafa ráðlagt að drekka sjóvatn við blóðspýtu, en það ollir sumum uppkasta og er því vart ráðleggjandi. Við utanmeinum er sjórinn öllu betri enn sjálft vatnið, og almennt álíta menn sjóböð miklu hollari enn kaldavatns böð, einkum þeim sem hafa kirtlaveiki, kláða eður iktsýki. Víðast hvar við Ísland er sjórinn svo hreinn, að menn gèta baðað sig hvar sem vera á, ef kuld-

inn ekki bannar það, þó er sumstaðar inust í mjóum fjarðabotnum svo mikil for og bleyta, að það er hið mesta óráð að baða sig í þeim, því auk þess-að hætt er við menn verði fastir í leirnum, þá er það mjög óhollt að baða sig í óhreinum sjó. Það er almenn regla hèr í Danmörku, að fara ekki að baða sig í sjó fyrr enn 12 rúma ilur er kominn í hann; á Íslandi mun flestum óhætt að baða sig í sjó ef 10 rima ilur er í honum, því þar eru menn vanari kuldanum.

---

## I. Kalda vatnið.

Dygðir kalda vatnsins eru margar og miklar, og vart gèfst sá kvilli í líkama mannsins að ekki megi það við hafa, með meiri eða minni notum. Áðurenn vèr förum að aðgæta dygðir kalda vatnsins nákvæmar, skulum vèr fara nokkrum orðum um hvör áhrif það hafi á líkama mannsins að öllu samanlögðu: það er þá fyrst að nefna, að þá er kaldt vatn kèmur í magann, er sú hin fyrsta verkun þess að það k æ l i r, bæði munn og háls og sjálfann magann. Það er því auðsært að einmidt kuldi vatnsins er hin besta lækníng þar sem kæla þarf munninn, hálsinn eða magann innanverðann. Þegar vatnið er komið ofaní magann, kèmst það bráðum þaðan aptur, sumt fer ígègnum mjólkuræðarnar *(vasa chylifera)* og sumt ígègnum blóðæðarnar yfir í blóðið, og hafi vatnið verið ískaldt þegar það var drukkið, slær kulda þess útí blóðið og kælir það. Þegar

vatnið er komið samanvið mjólkurvökvann *(Chylus)* og blóðið, þynnir það hvörntveggja þessara vessa, svo þeir enn þá hæglegar gèta gengið ígègnum smáæðar og farvegi líkamans og má vera að þeir hafi mætt mótspirnu áður, einkum blóðið, hafi það verið ofþykkt, og komist ekki áfram. Að þessu leiti má því með sanni segja, að kalda vatnið kæli og greiði blóðrásina í æðum líkamans. Enn eru nú samt sem áður ekki allar verkanir þess taldar, því af þessum tveim flýtur fjöldi annarra, sem opt eru líkama mannsins til mikilla nota, og margar þeirra lífi manna öldúngis ómissandi. Svo er og háttað vessum þeim og vökvum, er verða í líkama mannsins og gánga útúr honum, að flestir eru að mestu leiti tilbúnir úr frumefni vatnsins *(Vandstof, Brint)*, og vart fær hið eðlilega háttalag þeirra haldið sèr óskèrtu í stuttann tíma, ef vatnsins frumefni vantar í vessa líkamans. Það er því auðskilið, að þegar vatnsfrumefnið vantar í blóðið, sem er uppspretta allra vessanna, þá muni þetta gèta ollað töluverðri óreglu í líkamanum. Höfuðhluti blóðsins er vatnsefni, og eru rúmlega $\frac{8}{10}$ hlutir þess eintómt vatn; auk þess innibindur það í sèr ostarefni, mjólkursýru, salt og mjólkursikur. Aðrir vökvar líkamans, til að minda mjólkurvökvinn, magavökvinn (*succus gastricus & succus entericus*), þvagið, sveitinn o. fl. eru að mestu leiti úr vatnsefni.

Það sèst nú á þessu að vatnsefnið er aðalhluti vessa og vökva líkamans, og ríður einkum á að hafa nægð af því; það sýna og dæmin, að menn gèta eigi lengi lifað án þess

að neyta þessa vökva, sem er svo ómissandi til viðurhalds lífsins; og mörg dæmi gèfast uppá það, að menn hafa í miklu lengri tíma gètað lifað af eintómu vatni, án nokkurrar annarar fæðu, enn þeir mundu gèta lifað á eintómum mat, sem lítið eður ekkèrt vatnsefni væri í, án vatns. Þannig lifði einn maður, fyrir nokkrum árum í Vesturálfu, í 50 daga, án þess hann hefði annað að nærast á enn eintómt kaldt vatn.

Þegar vèr lítum á samsetníngu vessa líkamans, þá sjáum vèr að flestir hlutir þeirra, að vatninu einu fráskildu, eru þèttir líkamir *(faste Legemer)*, og að það þessvegna er vatninu að þakka, að þessir hörðu hlutir eru orðnir að vessum, og gèta gengið í gègnum æðar líkamans; af þessu er það nú einnig auðsært, að þegar vatnið vantar að nokkru leiti í vessana, þá muni þeir verða þykkir, og þessvegna hættara við að þeir stíblist í æðum og farvegum líkamans.

Reynslan sýnir, að mikill fjöldi sjúkdóma manna eru komnir af stíblun blóðsins og vessanna í ýmsum pörtum líkamans, og að þessi stíbla, svo sem á undan er ádrepið, opt kèmur að miklu leiti af ofþykkum vessum og blóði; það má því telja meðal höfuðdygða vatnsins, að það þynnir hina ofþykku vessana, og greiðir með því, svosem áður er sagt, umrás vessanna og blóðsins. Af þessu er nú auðskilið, að kalda vatnið er ágætt meðal í öllum þeim kvillum sem koma af stíblun vessanna og blóðsins í líkamanum.

Það eru eigi allfáir sjúkdómar sem koma af því, að ýmisleg óheilnæm frumefni eru kom-

in saman við blóðið og vessana. Nú með því að það er eðli vatnsins, að það þynnir öll þau frumefni er það annars gètur áverkað, og gjörir þau bæði ablninni og betur lögnð til að útrýmast úr líkamanum, þá má það telja meðal hinna ágætustu dygða vatnsins, að það er einkarmeðal við öllum þeim sjúkdómum er koma af því, að skaðleg frumefni hafa blandast saman við blóðið og vessana. Sjúkdóma þessa, sem bæði eru margir og miklir, skal jeg nú tiltaka nákvæmar.

Sjúkdómar þeir er kaldt vatn má viðhafa eru þessir:

A. Utanmein (útvortis sjúkdómar).

1) Bruni. Við bruna er kaldt vatn eitthvört hið besta meðal. *Hafi* maður *brennt* sig á útlimunum, er best að halda enum brenda limi niðri í köldu vatni uns hann dofnar; en sè brunabletturinn á sjálfum kroppnum, ofarlega á útlimunum eður á höfðinu, er best að taka samanvafðar lèreptspjötlur *(Kompressur)*, væta þær í köldu vatni og leggja á brunablettinn. Á vetrum, þegar klaki er við hönd, er allteins gott að hafa klakastykki við öll utanmein.

2) Mar. Þegar einhvörr hefir dottið og meiðt sig, svo sprúngið hefir fyrir eða kúla hlaupið upp, er best að taka kaldt vatn eða klakastykki og leggja við, er það hin besta og fljótasta lækníng og miklu betri enn allir áburðir og smyrsli; það gildir eina hvar þetta er á líkamanum, því allstaðar má vatninu viðkoma og hvörgi gètur það skaðað,

þó er best að hafa þá varúðarreglu, að sèu meiðslin undir fötunum, eða sè hinn meiddi sveittur, þá er betra að hínkra dálítið við, og þerra svitann áður enn kalda vatnið sè við haft.

3) Beinbrot. Með beinbrotinu er ætíð meira eða minna mar, og þessvegna er kalda vatnið einnig ágætt meðal við beinbrotum; það er því ómissandi við öll beinbrot, að leggja dúka *(Kompressur)*, vætta í köldu vatni, við beinbrotið, þegar búið er að koma því í lag, og skal því framhaldið við og við, meðan limurinn er tölnverðt bólginn. Með sama hætti má og við hafa kaldt vatn, ef gengið hefir úr liði og liðamótin eru bólgin.

4) Marin sár, er stundum vilja til, af því að maður dettur á eggsteina, læknast best ef þau eru fyrst böðuð vel í köldu vatni, skal svo leggja plástur á sárin, þá bólgan er úr dregin.

5) Frostbólga, sem opt kèmur á vetrum og vorum í hendur og andlit, læknast best með því að þvo hvörttveggja jafnaðarlega, uppúr köldu vatni.

6) Kal. Þegar mann hefir kalið, þá er ekkèrt betra meðal til enn kaldt vatn eða klaki, sem leggja skal við hinn kalda lim, uns líf færist í hann aptur; (sjá meira um þetta í upplífgun helkalinna).

7) Fíngurmein. Það er ótrúlegt hve fíngurmein einstaka sinnum batna fljótt, ef menn, undir eins og til þeirra finnst, halda fíngrinum niðri í köldu vatni, uns hann dofnar, og halda því við og við áfram, þángaðtil

verkurinn linnir. Jeg hefi nokkrum sinnum sèð, að fíngurmein, sem þó hefir verið farið að grafa í, hafa tekið mjög fljótum bata eptir að sjúklíngurinn hafði haldið fíngrinum niðri í köldu vatni, og þetta ráð ætti því í byrjun fíngurmeina aldrei að vanhirða.

8) Kverkabólga. Það er opt einkar gott ráð, að hafa kaldt vatn eða klakastykki í munninum, í byrjun kverkabólgu, því hún lætur ástundum mjög fljótt undan því, þó ber þess að gæta, að sè kverkabólgunni samfara kvefsótt, er þetta ráð eigi með öllu svo óhult, og það gètur þá orðið, að hún vesni við það.

Skírgr. Kverkabólgu tel jeg með utanmeinum, af því menn eru vanir því í handlæknisfræðinni.

9) Eistnabólga; komi kvilli þessi af mari, þá er kaldur bakstur ómissandi í byrjun hans; en komi bólgan af því að slegið hafi að manni, þá eru heitu bakstrarnir betri og óhultari.

10) Blóðnasir; það er eigi allsjaldgæft, að blóðnasir gèta orðið hættulegar, og eru líka dæmi til að þær hafi orðið að dauðameini. Eitthvört hið besta og fljótasta meðal til að stöðva þær, er að baða andlitið í köldu vatni, eða leggja klakastykki beggja megin við nefið og á ennið. Sumir hafa ráðlagt að leggja kalda bakstra á leyndarliminn, og hefi jeg sjálfur verið sjónarvottur þess, að það hefir stöðvað hinar ákðfustu blóðnasir. Þegar þær eru svo ákafar að blóðið renn-

ur niður í munninn, er einnig ómissandi að hafa kaldt vatn eða klakastykki í munninum. Sèu köldu bakstrarnir eigi einhlýtir, er ráðlegast að taka blóð á handleggi eða fótum, en hafa samt sem áður baktstrana.

## B. Innanmein (innvortis sjúkdómar).

### 1ti *flokkur.*

### Köldusóttir *(Febre).*

Það er varla nokkur sú köldusótt *(Feber)* til, að ekki sè kaldt og hreint vatn einhvörr, hinn hollasti og bèsti drykkur í henni. Í öllum bólgusóttum *(Betændelsesfebre)*, er það að mestu leiti ómissandi; sýnir náttúran það líka best sjálf, því flesta sjúklínga, sem liggja í þeim, lángar ákaflega í kaldt vatn. Þegar sóttinni er samfara lifrarbólga, meintu gamlir læknar að kaldt vatn væri skaðvænlegt, því þeir sögðu það ætti ekki við lifrina, *(Celsus).*[1] Þó þetta sè nú gömul regla, vil jeg eigi með öllu segja, að hún sè á aungvu bygð, og því ræð jeg sjúklíngum þeim sem hafa ígjörðarsótt með bráðri lifrarbólgu *(acut Leverbetændelse)* frá að drekka mikið af köldu vatni. Í kvefsótt hafa ýmsir læknar ráðlagt, að drekka kaldt vatn undir eins í byrjun sóttarinnar, og meintu að með því irði hún miklu vægri. Í iktarbólgu og doðasótt *(Typhus)* er kaldt vatn, blandað Sítrónuvökva eða ediki og hvítu sikri

---

[1]) *Abstinendum utique est ab omnibus frigidis; neque enim res ulla magis jecur lædit. Celsus de medicina lib. IV. cap. VIII.*

hollur og góður drykkur. Í magnleysis landfarsóttum *(Nervefeber* og *Typhus)* hafa menn á seinni tímum viðhaft kalda vatnið á ýmsann hátt, en þó jafnan með góðum notum; sumir hafa látið sèr nægja, að leggja dúka vætta í köldu vatni á höfuðið og skipt um þá þráfaldlega; aðrir hafa haft klakastykki, látið þau í blöðru, bundið fyrir og lagt hana við höfuð hins veika, meðan hann hefir verið sem lakastur af höfuðverki eður óráði. Þjóðverskir læknar hafa þaraðauki þvegið hinn veika allann, hátt og lágt uppúr köldu vatni, þurkað hann vel á eptir með hreinum klæðum og lagt hann svo niður í volgt rúm; þetta hefir opt linað hinar megnustu landfarsóttir, þótt lítið annað hafi komið að notum. Ennþá er einn máti ótalinn, hvörsu nota má kalda vatnið í landfarsóttum, en það eru steypiböðin *(Styrtebade)*, sem eru þannig tilbúin, að vatnið steypist ofan af þrepi yfir sjúklínginn, eða því er skvett yfir hann úr skjólum eður öðrum ílátum, ofanúr lopti. Steypiböðin styrkja mikillega, og hefir þeim þessvegna verið mjög svo hrósað á seinni tímum fyrir það, hve góð þau væri við öllum mænusóttum (*nervöse Sygdomme*) og magnleysis landfarsóttum. Í enum síðartöldu er títt að hafa þau við, einkum þegar sjúklíngur er mjög magnlaus og af sèr kominn, eður ef sóttinni er samfara ákafur og brennandi hiti á hörundinu, með magnleysis sveita er eyðir kröptum hins veika. Böð þessi eru viðhöfð í áðurtöldum sóttum á þann hátt, að hinn veiki er tekinn uppúr rúminu og lagður nakinn á rekkjuvoð eður brekán, sem tveir eða fjórir

menn halda á lopti, síðan er steypt yfir hann allann vatnsstraumi úr skjólu eður öðru íláti, og skal svo tilhaga, að vatnið steypist á hann úr lopti ofan, 3gja eður 4ra álna hátt; má það gjöra á þann veg, að sá sem vatninu steypir hleður undir sig kistlum eður öðru, svo hann standi 3 eða 4um álnum hærra enn hinn veiki liggur. Ekki skal steypa optar enn svari 4um eða 5 sinnum yfir sjúklínginn í einu, og skal þegar að því búnu þerra og núa allann líkama hans með hreinum þurkum eður rekkjuvoðum og leggja hann svo sem fljótast í hreint og heitt rúm. Það skal aðgæta, að sveitinn sè vandlega þerrður af sjúklíngi áðurenn hann er lagður undir steypibaðið; sömuleiðis ber þess að gèta, að það á betur við að hafa böð þessi á sumrum enn vetrum. Sjúklíngar sem hafa bólgu í brjósti (*Brystbetændelse*) þola þau ekki. Í laungum mænusóttum (*langvarige Nervefebre*) eru steypiböðin, eitthvört hið ágætasta meðal.

## 2*arr flokkur.*

## Bólgusóttir (*Betændelser*).

Öllum bólgusóttum er samfara ákafur þorsti, og flestir sjúklíngar sem í þeim liggja heimta þessvegna kaldt vatn að drekka. Þetta er þeim einnig í raun rèttri allra hollast, einúngis er það varúðarverðt að þeir eigi drekki ofmikið í einu. Lifrarbólgan er hin einasta innanbólga, í hvörri ekki er ráðlegt að drekka mikið kaldt vatn, einsog áður var um gètið. Við heilabólgu eru köld höfuðböð öldúngis ómissandi; verður þá ýmist að ausa vatni á

höfuðið eða leggja klakastykki á það, ef þau eru fáanleg, og er best að byrja á þessu undireins og finnst til fyrstu aðkènnínga sjúkdómsins. Sama er að segja um drykkjuæði (*delirium tremens*) að í því eru köld höfuðböð opt einka meðalið, ef rètt er aðfarið; en við báða þessa kvilla er þess gætandi, að ekki stoðar að baða höfuðið að eins einusinni eða tvisvar, heldur verður iðuglega að halda áfram böðunum meðan sjúklíngurinn er sem lakastur, og einúngis láta hann sleppa hjá þeim, meðan hann sefur.

Við bólgu í brjóstum kvenna hafa sumir læknar ráðlagt að baða þau í köldu vatni, en af því þau eru svo viðkvæm sýnist flestum það samt ekki ráðlegt.

### 3ji *flokkur.*

### Verkir (*Smerter, dolores*)

Höfuðverkur, sem kèmur af því að blóðið sækir ofmjög til heilans (*Cephalalgia congestionalis*) læknast opt best með eintómum köldum höfuðböðum; má þá annaðhvört hafa steypiböð, (sem í rauninni eru hin bestu), eða leggja dúka vætta í köldu vatni á höfuðið. Við öll höfuðböð er það aðgætandi, að sjúklíngur má eigi vera sveittur á höfðinu áður enn hann fer að baða höfuðið, því sè hann það, gètur verið að kalda vatnið hleypi iktarverkjum í heilann, eður himnurnar utanum hann. Það er eigi sjaldgæft, að blóðið sækir einkum til höfuðsins á þeim, sem eru þjáðir af harðlífi. Þessum

mönnum er einkar hollt að drekka kaldt vatn, svo sem svari einni mörk á hvörjum morgni, fastandi, því það hjálpar þeim til að fá góðar hægðir.

Flogagikt, eður fljúgandi iktsýki, er sá annarr kvilli í þessum flokki, er kalda vatnið gètur komið að gagni. Nokkrir hinna ýngri lækna (*Brandis*) hafa ráðlagt að leggja kalda bakstra á iktsýkis-verki, og því verður eigi neitað, að hinum veika svíar optastnær við þá; samt sem áður þykir þetta eigi óhullt með öllu, og er því við flestum þesshàttar verkjum óhultara að hafa heita bakstra. Köld böð eru öllum iktsjúkum einkar holl, en ráðlegra er samt, að hafa þau ekki meðan á kvillanum stendur, heldur milli aðkastanna. Sömuleiðis er öllum iktsjúkum mjög heilnæmt, að drekka góðann teig af köldu vatni á hvörjum morgni, fastandi.

### *4ði flokkur.*

### Blóðlát (*hæmorrhagiae*).

Þess er áður gètið, að kalda vatnið er eitthvört hið ágætasta meðal til að stöðva blóðnasir. Við blóðspýu og blóðuppköstum (*Blodbrækning*) er kalda vatnið einnig ómissandi; er best að láta sjúklíng drekka það daglega, en þó lítið í einu, skal það vera svo kaldt sem verða má. Margir álíta einkar gott, að gleypa smáa klakamola í blóðuppköstum, og eru þeir að því leiti betri enn sjálft vatnið, að þeir gèfa meiri kulda frá sèr og kæla því blóðið betur. Til að stöðva blóðlát kvenna er kalda vatnið einnig eitthvört hið besta meðal,

má því svo að fara, að láta konuna gleypa smá ísmola, og líka leggja dúka vætta í köldu vatni ofanverðt við fæðíngarliminn, og neðan til á holið (*Underlivet*). Í ofsablóðlátum eru mörg dæmi til, að steypiböð hafa frelsað líf konunnar, þótt að engu öðru hafi orðið lið. Það ber stundum við, að blóðmiga verður hættuleg bæði köllum og konum; eitt hið besta ráð við henni er að hafa kalda bakstra, annaðhvört klakamola eða kalt vatn og leggja á ofanverðt við lífbeinið og á spjald-hrigginn.

Í gylliniæða veiki eru kaldir bakstrar við endaþarminn einkar góðir, og það er ágætt meðal fyrir alla þá, sem hafa þenna kvilla að drekka talsverðt af köldu vatni á hvörjum morgni, fastandi; köld böð og sjóböð eru og einkar holl.

## 5*ti flokkur.*

## Mænusóttir (*nevroses*).

Kalda vatnið hefir þá dygð fremur flestum öðrum meðölum, að það styrkir mænurnar (*Nerverne*) betur og varanlegar enn inntöku meðölin, og fáar eður engar mænusóttir eru svo að það gèti ekki að gagni komið. Í flestum þeim kvillum, sem heyra til þessum flokkinum, eru það einkanlega köld böð og kaldir bakstrar, sem koma að miklum notum. Þessir eru hinir helstu sjúkdómar af tèðum flokki, sem köldu böðin ega best við:

Heilablóðfall (*apoplexia*). Þegar maður hefir fengið heilablóðfall, skal óðar losa um hann

öll fötin, taka af honum hálsdúkinn, leggja hann í rúm og sjá til að hann hafi mikið undir höfði, svo það liggi töluverðt hærra enn bolurinn; því næst skal taka sjúklíngi blóð á handleggi í olbogabót og láta talsverðt blæða, (sem svari hálfri annarri mörk). Síðan skal leggja samanvafða dúka vætta í köldu vatni á allt höfuðið, og væta þá jafnóðum og þeir verða volgir. Á vetrum, þegar hægt er að fá klaka eða snjó, er hann öllu betri enn kalda vatnið, en ekki þolir sjúklíngur hann samt eins lengi í einu á höfðinu, eins og sjálft kalda vatnið. Í sjúkdómi þessum er það og einkar gott, að hella steypiböðum á höfuð sjúklíngsins, og ítreka þau þrisvar eða fjórum sinnum á dag.

Hálfvisnan (*Hemiplegia*), sem kèmur af því, að eitthvað þrýstir á mænuna inní hriggnum, kèmur annaðhvört á eptir heilablóðfall eða hún kèmur af sjálfri sèr. Við kvilla þessum eru köld böð, og þó einkanlegast steypiböð á bakið, einkar góð, ef þau eru höfð með kostgæfni.

Sjóndepra og blinda. Þegar augnamænurnar (*Öje-Nerverne*) verða magnlausar, þá missir maður sjónina eða verður að minnsta kosti sjóndapur. Eitt hið besta meðal við sjóndepru og blindu er, að baða augun, gagnaugun og ennið iðuglega í köldu vatni, og hella steypiböðum yfir höfuðið. Það eru dæmi til, að menn sem öldúngis höfðu mist sjónina hafa orðið alsjáandi aptur einúngis við köld böð; og allra sjón sem farin er að deprast, styrkist best við þetta meðal. Hinn hentugasti tími til að hafa þetta meðal við, er morgunstundin, þegar

maður er nýkominn á fætur; er best að hafa til þess njarðarvött eða þunnar lèreptspjötlur, vættar í köldu vatni.

Miltisveiki (*Hypochondria*). Það er ekki sjaldgæft, að veiki þessi er komin af slæmu blóði og ofþykkum vessum, og á þá kalda vatnið einkar vel við henni. Miltisveikum mönnum er hollast að drekka kalda vatnið á morgnana, þegar þeir eru nýkomnir á fætur, og gánga þar á ofan góðann spöl, svo þeim verði ekki kaldt. Þess er að gæta bæði við þennann kvilla og aðra, að láng hollast er að drekka kalda vatnið á morgna, þegar maður er nýkominn á fætur.

Svartagalls-sýki (*melancholia*). Það var almenn meiníng margra góðra og gamalla lækna, að svartagalls-sýkin væri uppsprottin af spilltu vondu blóði, (ɔ: ofþykku og gallibl öndnu), og þessvegna rèðu þeir mönnum til að reyna til að hreinsa blóðið, svo það eigi ofþýngdi heilann og mænukerfið (*Nervesystemet*); til þessa hèldu þeir nú að búkhreinsandi meðöl og kaldt vatn væri eitthvört hið besta meðal. Á seinni tímum eru menn nú komnir á ena sömu trú, og hefir reynslan sýnt, að kalda vatnið, mátulega drukkið, er mörgum meðölum betra í svartagalls-sýkinni. Við kvilla þessum er hollast að drekka vatnið á morgnana, og kvöldin áðurenn maður fer að hátta, og gagnar ekki ef drukkið er minna enn svari 1i eða 2ur mörkum í senn.

Æði (*Mania*). Óðir menn eru optastnær svo íllir viðfángs, að bágt er að koma meðölum við, við þá, enda verða þau opt að litlum notum í sjúkdómi þessum. Eitthvört hið besta

meðal við æði er að baða sjúklíng jafnaðarlega í köldu vatni, og hætta eigi fyrr enn honum er orðið kaldt í hvört sinn; líka er einkar gott að leggja kalda bakstra á höfuð honum, og láta hann við og við fara í volg fótabóð.

Það er hræðilegt að vita, hvörja ímindun menn gjöra sèr um óða menn úti á Íslandi, og hvörnig með þá er farið. Jeg vil þessvegna óska að landar mínir vildu álíta aumíngja þessa eins og þeir eru, — það er að skilja sjúklínga — enn ekki „djöfulóða." Þó sjúkdómur þessi sè viðbjóðslegur, þá hefir þó seinni tíma reynsla sýnt, að ef rètt er með hann farið batnar hann sem optast af sjálfum sèr. Það ríður einkanlega á að gæta að, að eigi fari sjúklíngar þessir sèr eða öðrum að voða; því nærst varðar það miklu, að þeir hafi góð atlot, og menn forðist allt það, er espar geðsmuni þeirra. Gèti maður komist að tilefni sjúkdómsins, og aptrað því, er það hin besta lækníng.

Vitleysa (*Dementia*). Kvilli þessi er að því leiti ólíkur æði, að vitlausir menn eru hægfara, þeir tala rugl, en leita sjaldan við að gjöra sèr eður öðrum mönnum mein. Sjúkdómur þessi er optastnær kominn af meini í heilanum og mænukerfinu, og þessvegna eru köld böð, og einkanlega steypiböð og fossböð, þeim einkar holl.

Grilluveiki, Einfaraveiki (*Monomania*), er að því leiti auðþekkt frá öðrum sálarsjúkdómum, að sjúklíngur er eigi vitskèrtur, en hefir einúngis einhvörja heimskulega og fráleita hugmind (*fix Idee*), svosem til að minda,

að hann sè spámaður, konúngur, eður annað þvíumlíkt. Öllum þessháttar sjúklíngum eru steypiböðin og fossböðin einkar holl.

Holdsveiki, Líkþrá (*Elephantiasis*). Með því að líkþrá líkist mjög krabbameinum í náttúru sinni, þá hefir mèr dottið það í hug, að þessháttar sjúklíngum mundi vera mjög svo hollt að drekka talsvert af köldu vatni, einkanlega á morgnana. Það er raunar ekki meiníng mín, að kalda vatnið muni vera einhlýtt til að lækna kvilla þenna, heldur þykist jeg vera sannfærður um, að það ásamt öðrum meðölum muni vera ágætt hjálparmeðal til að aptra honum, og jafnvel útrýma.

Krabbamein (*Cancer*). Á seinni tímum hefir verið reynt til að láta sjúklínga drekka kaldt vatn við krabbameini, og hefir það opt komið að góðum notum, því þó vera megi, að það sjaldan hafi læknað þenna hrillilega sjúkdóm, hafa menn þóttst sjá, að sjúkdóms aðköstin urðu vægri, og kvillinn þessvegna sjúklíngi miklu lèttbærri.

---

## II. Volga vatnið.

Volg böð[1]) eru í mörgum meinsemdum einkar holl, og einkanlega í öllum hörundssjúkdómum. Það var alvenja fyrrum, að lauga sig í hvörri viku, en því miður er því nú gleymt, eins og mörgu öðru, með hvörju forfeður vorir áður bættu heilsu sína. Jeg ætla að hör-

[1]) Volg böð mega eigi vera heitari enn svo, að vatnið nái 25ta eða 28du riminni á Raums hitamæli.

undskvillar muni í fáum löndum vera eins almennir og á Íslandi; og það er á orði haft með öðrum þjóðum, hve almennur kláðinn sè á landi þar, og svo mjög kveður að því, að um það má segja einsog Eggert Ólafsson kvað forðum um íslendsku stúlkurnar: „sú vömmin jöklum vekur tár vèr þó gèðið brjótum." Jeg þori óhætt að fullyrða það, að ef menn hèldu uppi venju forfeðra vorra, og gengju í laugar að minnsta kosti einusinni í hvörjum mánuði, þá mundu bæði kláði og aðrir hörunds kvillar verða lángtum sjaldgæfari á Íslandi; og það er undarlegt, að fólk ekki skiptir sèr af þessu, jafnvel þó náttúran á mörgum stöðum minni þá á það með heita hveravatninu.

Við gikt og köldu, sem margir kvarta um, eru volgu böðin einnig einkar góð; sama er að segja um svefnleysi og ýmsar mænusóttir, hvörjum að er samfara óregla í blóðrásinni. Við tíðateppu eru volg fótaböð og blóðtaka á fótum almennt höfð, og koma opt að góðum notum.

Við fluggigt má volga vatnið enn fremur viðhafa, á þann hátt, að taka samanlagðann vaðmálsdúk (vaðmáls kompressu), væta hann i volgu vatni, leggja á verkinn, og dýfa dúkinum í vatnið aptur jafnóðum og hann verður kaldur. Það er ótrúlegt hvörnig þetta ástundum drepur gigtverki, sem koma af því að slegið hefir að manni kulda. Það hefir á seinni tímum verið reynt að lækna iktsýki með því, að láta sjúklíng drekka afarmikið af volgu vatni, hèrumbil 48 merkur á dag; hefir það stundum komið að góðu gagni, en flestum læknum

þykir það samt veikja meltíngar abl sjúklíngsins, og þessvegna hefir lækníngarmáti þessi aldrei orðið algengur.

Þegar hafa þarf uppsölu meðöl, er það almennt að láta sjúklíng drekka töluverdt af volgu vatni, svo hönum veiti hægra að selja upp.

Þar sem blóðsugur eru viðhafðar, er algengt að taka njarðarvött, dýfa honum í volgt vatn og leggja við bitin, til að örfa með því blóðrásina; einnig má hafa til þess ullarleppa, sem vættir eru í volgu vatni, og skal þá skipt um þá, jafnóðum og blóðlifrarnar safnast í þá.

## III. Sjóðandi Vatn.

Allvel má hafa sjóðandi vatn til að brenna með því, í staðinn fyrir spanskar flugur, skal gjöra það á þann hátt, að taka leðurpjötlu eða þykka skinnpjötlu, gjöra á hana krínglótt gat, sem spesíu stærð eða lítið stærra; skinnpjötlunni (með gatinu á) er vafið í kríngum handlegginn eða fótinn, þar sem maður vill að blaðran hlaupi upp, og skal henni þrýst svo fast að hörundinu sem verður, svo að bletturinn, sem brenna á, leggist fyrir gatið á leðrinu. Þar á ofan skal taka lèreptsríu eða njarðarvött, dýfa öðrum endanum ofaní sjóðheitt vatn, og leggja þannig við hörundsblettinn, sem stendur útúr skinngatinu, 3var eða 4um sinnum. Þó þetta kunni að sýnast töluverður sársauki, þá er það í raun rèttri enganveginn verra að þola enn sjálfa spönskuflug-

una (*Spanskflueplaster*), og stendur líka lángtum skèmur á því. Þegar blaðran er upphlaupin undan vatninu, skal klippa á hana gat, og leggja síðan við dragsmyrsli, svo að grafi í sárinu nokkra daga.

Brunasár þannig gjörð með sjóðheitu vatni eru einkar gott meðal við iktsýki, sem lagst hefir í útlimina, höfuðið eða kroppinn; eru þau að því leiti betri enn spanskflugnasár, að þau verða hreinni og draga miklu betur.

---

## Um bráðar Lífshættur.

### Endurlífgun druknaðra.

Þó druknaðir menn sèu tilsýndar sem dauðir, þó þeir hvörki hafi andardrátt, æðaslátt eða il, mega menn samt eigi trúa að lífið sè með öllu útsloknað; því reynslan hefir sýnt, að menn, sem legið hafa í vatni klukkustundu eða lengur, hafa við náttúrlegar og þolinmóðlega áframhaldnar upplífgunartilraunir, lifnað við aptur [1]). Erlendis í flestum borgum eru

---

[1]) Árið 1777 fell kona nokkur i borginni *Lýon* á Frakklandi i vatn, og varð henni eigi nað fyrr enn að liðinni klukkustundu; menn reyndu nu með ýmsu moti til að bjarga henni til lifsins aptur, og eptir þriggja tima viðleitni raknaði hún við.

1779 vildi likt til i Stokkholmi i Sviþjoð: gömlum manni, sem var druknaður, varð eigi nað fyrr enn eptir rüma klukkustund, var hann þà tilsýndar sem dauður, likaminn alstirðnaður og kolblar. Skipherra nokkur sem hjálpaði honum við, let leggja hann a tunnu og velta vareygðarlega, og kom við það uppur honum mikið af vatni, siðan var blàsið i hann nýu lopti, skirta og sokkar dregnir af honum, og likaminn kostgæfilega nuinn, með þurrum ullar leppum; i lofunum og einkum undir iljunum, var hann einnig nu-

hús bygð til þess að bera þá menn inní sem í vatn hafa fallið, og hjálpar það mörgum til lífsins aptur. Þess er um fram alt að gæta, við lífgun druknaðra manna, að menn verða að vera sèrlega iðnir og kostgæfnir, og ekki hætta við lífgunar tilraunirnar fyrr enn að rúmu dægri liðnu; jeg ámálga þetta því fremur, sem jeg veit að þetta hefir þráfaldlega verið unðanfellt, og þó konferentzeráð Jón sálugi Eyríksson hafi í 6ta bindi Fèlagsritanna blaðs. 202 o.s. fr. nákvæmlega gèfið Íslendíngum **reglur til að koma druknuðum aptur til lífs**, veit jeg dæmi til að menn hafa gèfið lítinn gaum að þessu, og álitið jafnt sem áður hvörn þann er druknaður var fullkomlega skilinn við.

Það ætla jeg auðsært, að hjálpa skal druknuðum mönnum á þurt land, svo fljótt sem verður, og vil jeg því eigi fara mörgum orðum um það. Þegar þetta er gjört á báti, verður að draga hinn druknaða með vareygð inní bátinn, svo að hvörki hálsinn, brjóstið eða kviðnrinn þrýstist uppvið, eða snerti borðstokkinn, því með ólaglegri meðferð gætu menn skaðað hinn drukn-

---

inn með bursta. Þessu var lengi áfram haldið, án þess nokkuð irði ágengt, en að lyktum tok hann þó að hræra sig, og votta lífsmerki; var hann þá endurnærður með litlu einu af víni, uns hann um síðir kom fullkomlega til lífsins aptur. (Sjá Rit hins íslendska Lærdómslista Felags, 6ta Bindi blaðsiðu 203).

Piltur i Mannheimi à Þýðskalandi datt i á, og hafði straumurinn borið hann yfir 200 fet, frá þeim stað er hann fell i ána; eptir $\frac{3}{4}$ klukkustundar varð honum bjargað úr vatninu, og var þá ekkert lífsmark með honum, engu að síður lifnaði hann við aptur, við endurlífgúnar tilraunir. (*Kjöbenh. juridisk medic. oeconom. Tidende* 1757 *Nr.* 2.

aða, svo að hann kostaðist, og gæti þessvegna eigi lifnað við aptur. Þvínæst skal bera hann í næsta hús, þó svo, að hann sè lagður uppílopt, eða á vinstri hlið, ofan á nokkurt hey eða föt. Húsið, (þar sem tilraunin er gjörð), verður að vera rúmgott, og má hvörki vera í því súgur eða slæmt lopt. Á sumrum, í blíðviðri og sólskini, má vel gjöra lífgunar tilraunina undir berum himni, og sè hún þá helst gjörð á þeim stað, er sólin skín á.

Allra fyrst skal draga af hinum druknaða öll vosklæði, þerra líkamann vandlega með rekkjuvoðum, leggja hann á þurt hey, sængurföt eða þófa, og breiða yfir hann þur og nokkuð vermd rúmföt. Í veiðistöðum, eða þar sem því verður viðkomið, er það allgott ráð, að leggjahinn druknaða í volgt rúm, og láta einn eða tvo liggja hjá honum, og verma hann. Hinn druknaði skal ætíð lagður svo, að brjóst hans og höfuð liggi talsvert hærra enn bolurinn, og að frítt gángrúm sè að líkamanum á allar hliðar.

Þegar þannig er búið um hinn drukknaða, sem nú var ákveðið, skal allra fyrst hreinsa munn hans og háls, svo vel sem verður; skal gjöra það á þann hátt, að maður hallar höfðinu frammávið, og hreinsar munninn og hálsinn, með fjöður eða votum njarðarvetti, svo vel sem verður.

Nú verður endurlífgunar tilraunin á ýmsann hátt, eptir því hvað ollað hefir hinum druknaða dauða.

Druknaðir menn deya annaðhvört af köfnun (*Suffocatio*), eða heilablóðfalli (*Apoplexia*).

Hið fyrra er almennast, og því er nauðsynlegt að vita kennimerki köfnunarinnar, en þau eru þessi:

Andlitið er bólgið og blárauðt á lit, túngan og varirnar þrútnar og bláleitar, augun frammstandandi, og andlitsfarið sem á hengdum, munnurinn og nasirnar eru fullar froðu, og bláir blettir (þó án nályktar) hèr og hvar um kroppinn, blóðið er þunnt og svartleitt.

Stundum hefir hvörttveggja (bæði köfnunin og heilablóðfallið) orðið samfara drukninninni; verður það helst á feitu fólki, eða þeim sem hafa verið ákaflega heitir og sveittir þegar þeir fèllu í vatnið, eins á ólèttu kvennfólki.

Þrennt er einkanlega aðgætandi við endurlífgun allra druknaðra, eins þeirra sem kafnað hafa sem hinna er dáið hafa úr heilablóðfalli, en það er þetta; Verma verður hinn druknaða, og reyna til að koma blóðrásinni í hreifingu, og færa aptur í hann andardráttinn.

1) Verma má hinn druknaða á ýmsa vegu; á sumrum þegar heitt er í veðri og sólskin er, má taka heitann sand, sem sólin hefir vermt, og hlaða í kríngum hinn veika allt að höfði; á vetrum og þegar kaldt er má heita sandinn í potti, eður á volgum hellum. Þar sem heitar laugir eru í nánd, eða heitt vatn gètur fengist á svipstundu, er einkar gott að setja hinn veika í volgt bað, sem svari 28du rimінni á *Raums* hitamæli, og sem taki enum druknaða undir höku. Þar sem hvörugu þessu verður viðkomið má annaðhvört, svo sem áður er sagt, leggja hinn druknaða í volgt rúm,

eða verma hann með ullarrekkjuvoðum, hituðum í potti, eður á heitri hellu.

2) Reyna skal nú með öllu móti að **koma blóðrásinni í hræríngu**, verður það best með þeim hætti, að maður nýr allann líkamann, lófana og iljarnar með heitum ullarfötum; ráða sumir, að dýfa því sem núið er með, ofaní ediks eða sýrublandið volgt vatn, hvað þó í raun rèttri ekki er nauðsynlegt. Núa skal líkamann á þann hátt, að byrjað sè á útlimunum, og strokið uppávið, á móts við hjartað, og sè núníngi þessum áfram haldið, í lángann tíma.

3) Í sama vetfángi, sem þetta áðurtalda er um hönd haft, skal reyna að koma **andardrættinum í hræríngu**; verður það best með því móti, að blása af öllum mætti ofaní hinn druknaða, annaðhvört með litlum belgi, eður ef hann er eigi til, með munninum, er þá lagður munnur við munn, og haldið fyrir nasirnar, svo eigi fari loptið útum þær. Samstundis þessu skal þrýsta með flötum lófanum neðanvert á rifjahylkið, en þó eigi all fast; er það til þess, að hið óheilnæma loptið sem er í lúngunum, gèti samblandast enu innblásna, og verði með því móti útrýmt úr þeim. Dreypa skal nú á hinn druknaða nokkru einu af Hoffmansdropum, eða ef þá vantar, kamfórubrennivíni, lífsbalsami eður öðrum upplífgandi meðölum, sem fáanleg eru; einnig skal blásið tóbaki, steittum pipar, eða muldu hvítasikri, ígègnum fjöðurstaf eða pípulegg, inní nasaholurnar, til að reyna til að koma hinum druknaða til að hnerra, eður að minnsta kosti til að

espa nasa mænurnar. Hafi menn salmiakdropa (*Salmiacspiritus*), eru þeir og einkar góðir til þess; sè þeim þá haldið fyrir vitin, svoað gufuna leggi uppí nefið; sè ekkert annað til, má taka blóðberg og halda því fyrir vitum ens druknaða. Til að koma andardrættinum í hræríngu, er enn fremur einkar gott, að setja enum druknaða stólpípu með tóbaksreyki; má það þann veg gjöra, að látið er tóbak í tvær pípur, kveykt svo í báðum, og höfuðin bundin saman, því næst er öðrum pípuleggnum stúngið tveggja fingra lángt inní þarfagánginn, og reyknum svo blásið í gègnum hina pípuna, svo hann fari inní þarmana; og sè svo áfram haldið, 2 mínútur í senn. Aðrir taka pípureykinn í munn sèr, og blása honum ígègnum stólpípulegg, eða pípulegg, sem stúngið sè uppí þarfagánginn, inní þarmana. Blása skal af öllu megni, svoað reykinn leggi sem lengst uppí þarmana.

Ásamt þessu sem nú er talið, skal núa hinn druknaða með leppum, eða vaðmálspjötlum, vættum í volgu brennivíni, helst um rifjahylkið, og síðurnar; sakar þá ekki að hrista kroppinn hægt, og núa hrigginn allfast, beggja megin við hriggjarliðina; einnig skal við og við þrýsta á hjartagrófina, og strjúka upp eptir brjóstinu.

Nú er að gèta þess er heilablóðfall er samfara köfnuninni; en það þekkist á því, að hinn druknaði er ákaflega þrútinn og blár í andliti, og hefir hann þá sjaldan drukkið mikið áður hann druknaði. Við þesskáttar druknun er nú næstum öll hin sama endur-

lífgunar aðferð sem áður er talin, að því einu hjáskildu, að menn, þegar svo er, láta sèr mjög annt um að taka hinum druknaða blóð, annaðhvört á hálsinum eður í olbogabótinni; en með því að merki heilablóðfallsins eru mjög fallvölt, sakar ekki og er skylda manna að reyna ætíð blóðtökuna við druknaða menn; þó skal sú varrúðarregla viðhöfð, að ekki sè látið blæða ofmikið (meira enn svari einni mörk) í einu. Þó að druknuðum vilji ekki blæða, er það ekkert óbrigðult merki þess, að hann sè algjörlega dauður, og skal því allt að einu halda áfram með endurlífgunar tilraunirnar.

Þegar líf fer að færast í hinn druknaða merkjast fyrst smá kipríngar í augnalokunum og andlitinu, og ríður þá mjög á að dreypa á hann víni, eður upplífgandi meðölum, og verma hann sem best má.

Vilji blóðið sækja til höfuðsins, þegar hinn druknaði er farinn að lifna við, verður að taka honum blóð aptur, setja hann í volgt fótabað, núa handleggina og herðarnar, með pjötlum vættum í ediki eða sýru, og taka honum hornblóð á hálsinum aptantil. Þegar hinn druknaði er farinn að lifna við, þykir sumum læknum ráðlegra, að gèfa enum endurlífgaða uppsölumeðal. Jeg held þessa þurfi í raun rèttri sjaldan við, nema ef svo ber til að hinn druknaði vilji dræmt lifna við, og merki eru til að maginn sè fullur af sjó eða vatni.

Ekki má gèfa druknuðum, sem lifnað hafa við, neinn þúngann mat, fyrr enn eptir nokkra daga; þeim er hollast að lifa á lèttmeti, drekka blóðbergs vatn, og við og við dálítið af messuvíni.

Þó að áðurtaldar tilraunir til endurlífgunar verði árángurslausar, má samt sem áður ekki grafa líkið fyrr enn óbrigðul rotnunarmerki (um hvör seinna verður talað) hafa látið sig í ljósi. Sem merki þess, hvað lífið getur ótrúlega lengi leynst með druknuðum, er það, að menn hafa legið rúmann hálfann dag í vatni, og lifnað þó við aptur.

Að endíngu vil jeg gèta þess, að er menn vilja reyna til að endurlífga druknaða og skindauða, verður að gjöra allt það er gjöra þarf, þeim til hjálpar, án minnstu tafar.

---

## Endurlífgun helkalinna.

Þegar menn hafa orðið úti á vetrum og kalið til dauða, er það því miður alvenja að álíta þá öldúngis viðskilda; ætti fólk nú á tímum því heldur að vara sig við villu þessari, sem næg dæmi eru til, að eptir lífgunar tilraunir hafa helkaldir menn lifnað við, að laungum tíma liðnum. Því er ráðlegast að gjöra endurlífgunar tilraunir við alla helkalna, nema því að eins, að þeir hafi legið úti í lángann tíma, svosem svari viku eða lengur. Þegar menn finnast sem orðið hafa úti, skal strax flytja þá til bæa, nema því að eins að hlýtt sè í veðri eða hláka, því þá má einstaka sinnum gjöra lífgunar tilraunina undir berum himni. Þess ber umfram allt að gæta, að líkamir helkalinna manna eru mjög stökkir, og gèta því hæglega brotnað á þeim útlimirnir, eyrun og

nefið, ef ekki er varlega með þá farið; það er því varúðar verðt, að menn ekki fari harðt með þá, eður óþirmilega.

Sè líkami þess sem úti hefir orðið freðinn við jörðina, snjóinn eða klakann, skal losa snjóinn og klakann umhverfis hann með reku, spaða eða páli, og verða menn þá að fara svo varlega að þessu, að verkfærin snerti ekki líkama hinns dauða, eða gjöri honum mein. Þvínæst skal líkaminn lagður endilángur á borð eða fjalir, og borinn þannveg á kviktrjám eða börum; snjó skal hlaðið kvartils þykkum á fjalirnar undir líkamann, og hagað svo til að hlaðið sè undir höfuðið svo, að það liggi talsverðt hærra enn bolurinn. Það hefir verið venja að bera kalna menn heim að bæum í brekánum eða rekkjuvoðum, enn það er ekki ráðlegt, því þá er miklu hættara við að líkaminn, sem er svo stökkur, kostist eða skèmmist á ýmsann hátt; en við því er ekki hætt þegar hann er lagður endilángur á borð, hurð eða fjalir, og borinn svosem fyrr var sagt, á kviktrjám eða börum.

Þegar komið er með líkamann á þann stað, hvar endurlífgunar tilraunin skal um hönd höfð, skal umframm allt minnast þess, að eigi má fara með hann inní heitt hús, svosem tilaðminda baðstofu eða fjós, (sem því miður opt hefir verið venja fyrrum), heldur skal hann lagður í kaldt útihús, svosem skèmmu, hesthús eða fjárhús. Jeg þykist vita að mörgum muni þykja þetta undarlegt eða miður rètt, en jeg má umfram allt áminna fólk um, að það er háskalegt, og drepur hinn helkalna samstundis,

ef hann mætir hita eða hlýindum fyrr enn hann er raknaður við. Hann skal því sem nú var ádrepið lagður í kaldt útihús; þvínæst skal skèra eða spretta af honum fötin með skærum eða knífi, (það má alls ekki reyna til að færa hann úr fötunum, heldur skulu þau rist af honum), og honum búið rúm úr kvartils þykkum snjó, og þar skal hann áleggja alls berann. Þvínæst skal þekja hann eins þykkum snjó, og þrýsta að líkamanum hæglega, á allar hliðar; snjónum skal einnig hlaðið að höfði hans og andliti, en þó svo, að munnur og nasir standi uppundan, til þess að lopt gèti komist að andrúminu. Í Garðaríki er venja að hrífa helkalna menn með snjó, eða ísköldu vatni, enn það verður þó hvörgi nærri svo jöfn verkun af því, sem áðurtaldri snjóþekju. Sè eigi snjór fáanlegur, þá dýfa menn rekkju voðum, brekánum, pokum eður öðru þvílíku í ískaldt vatn, í hvört að látnir sèu nokkrir klaka molar, og leggja svo þessi votu klæði undir, yfir, og umhverfis hinn andvana; einnig má leggja hinn andvana allsberann í kaldt vatn, en þó svo að höfuðið standi uppúr, og sè einasta hulið ofantil með votum fötum; skal þá núa líkamann iðuglega með vatninu, og ausa því með lófunum yfir andlitið, einúngis má það eigi koma inní nasir eða munn hins dauða. Jafnóðum og snjórinn bráðnar, eða vatnið volgnar, skal jafnframt endurnýa hvört um sig, og halda þann veg áfram, uns vart verður við lífsmark með hinum dauða. Mörgum kann að virðast þetta bísna viðbjóðsleg aðferð við helkalna menn, að

dysja þá alsbera í snjó, en sú er allt að einu hin rètta aðferð og varðar lífi mannsins ef útaf er brugðið. Læknum og öðrum náttúruvísinda mönnum er það bert, því svo skal aðfara, enn það irði oflángt að greina frá því hèr, og almenníngi enn sem stendur óskiljanlegt.

Þegar helfreðnir menn fara eptir áðurtalda aðferð að þyðna upp, leggur ísskorpu á allann kroppinn, og þykir þá fyrst mál að taka hann úr snjódýngjunni eða vatninu. Um þetta bil verður vart við velgju á kroppnum, og verða útlimirnir þá sveygjanlegir; skal þá núa og þerra líkamann með hreinum ullarfötum, og að því búnu sè hann fluttur úr útihúsinu í baðstofu eða fjós, þarsem nokkur ilur er, og um hann búið. Reynt skal nú til að opna munninn, verður það best með því, að núa kjálkana, gagnaugun og allt andlitið, með brennivíni, kamfórudropum eður eintómum klaka. Blóðið, sem hefir safnast fyrir í brjóstinu og höfðinu, reyna menn til að leiða til fótanna, með því að þvo þá í volgu vatni, eða gjöra enum dauða volgt fótabað.

Til þess að gèta komið andardrættinum, í hræríngu, verður að blása ofan í hinn helkalna, á sama hátt sem áður er sagt um drukknaða. Þegar lífsmark finnst með líkinu, skal annað hvört dreypa í munn þess litlu einu af hoffmansdropum eða brennivíni, og kitla munninn og hálsinn með fjöður, dýfðri í olíu eða hreint lýsi; einnig skal nú borið að vitunum, eitthvað þefmikið, svosem til að minda, salmiaksdropar, laukur, edik eða blóðberg. Undir

eins og hinn helfreðni er farinn að lifna svo við, að hann gètur rennt niður, skal dreypa á hann, sterku blóðbergsvatni, ediki eða sítrónuvökva, og láta hann þar að auki drekka eitt staup af velgdu messuvíni, eða volgu vatni, blönduðu rommi og hvítasikri.

Vilji andardrátturinn ekki láta sig í ljósi við áðurtalda tilraun, verður, eins og áður er umgètið við druknaða, að núa allann kroppinn vel og vandlega með ullarfötum, setja stólpípu með tóbaksreyki í, og opna æð á handleggi í olboga bót. Sjáist á enum helfreðna, þegar hann er farinn að lifna við, að hann sè mjög þrútinn í andliti, verður án tafar að opna æð, og gjöra honum volgt fótabað.

Nú skal talað um það, með nokkrum orðum, hvörnig menn gèti varið sig kulda, og varnað kali; og verður það með þessum hætti:

1) Þeir sem úti þurfa að vera í miklu frosti, mega hlúa vel að sèr, eru vel tilbúin ullarföt best til íveru þegar frost er, enn skinnföt ytst ómissandi í rigníngum og blotaveðrum. Það er eigi sjaldgæft að menn verði alvotir á ferðalagi á vetrar dag í blotum, er þá háski á ferðum, ef frýs ofan á blötann áður enn ferðamaðurinn nær mannabygðum; þessvegna er ferðamönnum áríðandi, að hafa skinnklæði ytst fata, og væri óskandi, að Íslendíngar kynnu betur að búa til skinnföt, enn títt er ennþá. Er það ei all-lítil mínkun fyrir þá, að þeir að þessu leiti standa lángt á baki skrælíngja, og væri þó ekki minni þörf á að bera skinnföt á Íslandi, enn á Grænlandi; eru skinnföt skrælíngja svo meistaralega tilbúin, að trauðt

mun nokkurn mann kala í þeim, þó ærið frost sè.

2) Aldrei mega menn fara svángir úti mikinn kulda; er ferðamönnum, og þeim sem úti þurfa að vera á vetrar degi, nauðsynlegt að borða góðann mat, sem vel stendur undir, svosem kjötmat, þykka grauta, eða fisk og smjör. Þunnur spóna matur er að litlum notum, og enn þá síður gagnar að drekka heitt kaffe, eða tevatn.

3) Allir ferðamenn ættu að vera vel útbúnir að nesti, því eigi veit hvað að kann að bera, og þó menn leggi á stað í góðu veðri, vita allir að eigi er lengi að skiptast veður í lopti. Þeir sem ferðast ega yfir fjallvegi, ættu aldrei að vera nestis lausir.

4. Verja má kali þó mikið frost sè, með því að rjóðra líkamann með feiti, svosem smjöri, lýsi, tólki eður olíu, ríður einkum á að rjóðra þessu á þá hluti líkamans sem berir eru, nefnilega andlitið og hendurnar, það væri því öllum ferðamönnum til ráðandi, að hafa á sèr lítið pelaglas með lýsi eður olíu, til að gèta tekið til þess þegar á þyrfti að halda.

5) Ferðamenn mega þegar frost er forðast brennivín og alla áfenga drykki, því þeir gèta ollað mönnum bráðs bana, og þó brennivínið hressi nokkuð lúinn ferðamann í svip, er samt ógjörníngur að drekka það í frostveðri.

6) Alla þá sem úti ætla að verða sækir í fyrstu ákaflegur svefn þúngi, kèmur það bæði af þreytu og líka af því, að blóðið flýr frá yfirborði líkamans, í kuldaveðri og frosti, og safnast fyrir í höfðinu og lúngunum. Ferða-

menn mega umframm allt varast að láta sigrast af svefninum, því gjöri þeir það, gèta þeir ekki vaknað aptur, og verða þannig úti; þeim er best að vera á sífeldu stjái þar sem hlè er, enn gèti þeir það ekki sökum þreytu, er skást að grafa sig í djúpann skafl, áður enn menn verða mjög magnvana, og styrkja kraptana með matarbita, helst kjötmat. Þó menn hafi brennivín hjá sèr, má í þessum kríngumstæðum allsekki neyta þess.

7) Verði menn varir við að þá ætli að kala í andliti, eður á fótum og höndum, sem sèst á því að hinn kaldi limur verður hvítleitur, skal óðar núa hann með snjó eða klaka, og ekki hætta, fyrr enn líf og ilur færist í liminn. Sè ferðamaður orðinn votur í fæturna, má þerra vætuna með því að miklu leiti, að hnoða snjó fast umhverfis þá.

8) Hafi menn kalið á höndum eða fótum, verður að varast að láta il komast að kalda liminum, fyrr enn lífið hefir færst í hann aptur. Það er því aðgætslu vert, þegar kalnir menn koma heim að mannabygðum, að ekki fari þeir niður í heitt rúm fyrr enn kalið er úr dregið; mega þeir raunar fara í baðstofu eða fjós hvar ilur er, enn þó jafnframt því halda enum kalda limi niðri í köldu vatni eða snjó, uns líf færist í hann.

Frostbólga, sem opt heimsækir fólk á vetrum og vorum, læknast best með því að baða hana iðuglega í köldu vatni, eða núa með snjó. Einnig eru salmiaksdropar (*liqvor salis ammoniaci causticus)* ágætt meðal við frostbólgu; skal hafa þá svo að menn dýfi í þá fjöður, og

rjóðri þeim á bólguna. Kulda pollar sem koma á frostbólgu, læknast best með græðismyrslum (*āā unguenti nutriti et unguenti altheæ*) sem lögð sèu við þá kvöld og morgna.

---

## Endurlífgun hengdra.

Hengdir deya annaðhvört af köfnun, heilablóðfalli eða hvörttveggju; er af þessu auðsært, að dauði þeirra aðber með líku móti og druknaðra, og verður því endurlífgunar tilraunin mjög lík þeirri sem áður var talin við druknaða; er öll von að menn gèti endurlífgað hengda, allt þar til að rotnunar merki sjást á líkamanum. Svo fljótt sem verður skal taka snöruna af hálsi enum hengda, og losa um hann öll fötin svo þau sèu eigi blóðrásinni til tálmunar, því næst skal hann látinn í rúmgott hús, má þar vera hreint lopt, og þó eigi all kaldt, skal svo gjöra þessa tilraun:

1) Allrafyrst skal taka enum hengda blóð, annaðhvört á hálsæðunum eður í alboga bót, og láta blæða ríflega í fyrstu.

2) Þessu næst skal setja blóðsugur á hálsinn, eða taka manninum hornblóð aptan á hálsinum, og skal hálsinn þar á ofan núinn með einhvörri feiti, svosem smjöri eða lýsi.

3) Gjöra skal hinum hengda heitt fótabað, og setja stólpípu með vatni, salti og bræddu smjöri.

4) Einnig er nú nauðsynlegt að verma hinn hengda sem best verður; má það gjöra með ýmsu móti, annaðhvört með volgu baði,

eða rekkjuvoðum heittum í potti, og sè þeim sveypað allt um kríng líkamann.

5) Gèfa skal gaum að barkanum, hvört hann ekki sè beiglaður eða marinn undan snörunni; má ef svo er reyna til að koma honum í lag með fíngrunum, og skal þá jafnframt leggja munn við munn enum hengda, og blása af öllum mætti ofan í hann. Hafi menn lítinn belg er öllu betra að blása með honum.

6) Jafnframt þessu skal núa brjóstið og bríngsmalirnar með ullarfötum, reka lint högg á milli herðanna, og halda ilmandi eða þefmiklum meðölum, svosem kamfóru, ediki, salmíaksdropum, hoffmannsdropum, eður öðru því líku, fyrir vitum ens hengda.

Þegar líf er farið að færast í líkamann, verður stundum að endurnýa blóðtökuna, og dreypa á manninn hoffmannsdropum eða víni; varðar þá og miklu að kulur komist að honum, svo hann ègi hægra með að ná andanum, mega menn því varast að ekki sè reykur eða stibba, í húsi því er hann er ílagður. Ekki hentar að gèfa þessum mönnum (þá þeir lifna upp aptur) neina áfenga drykki, svosem kaffe, brennivín eða því um líkt, því það örfar blóðrásina um of, og er af því hætta búin.

Verði endurlífgunar tilraunin árángurslaus, má samt enganvegin grafa þessa menn, fyrr enn fullkomin rotnunarmerki sjást á líkamanum; þykir þá ráðlegast að grafa þá í heitri ösku eða sandi og halda þann veg ætíð hita á þeim, uns rotnunarmerkin láta sig í ljós.

---

## Endurlífgun kafnaðra.

Köfnun gètur aðborið með ýmsu móti, og er þess áður getið, að bæði druknaðir og hengdir menn, deya af nokkurskonar köfnun. Ýmsar loptstegundir gèta ollað köfnun, og er í rann rèttri engin loptstegund er í má lifa, nema lífsloptið blandað ólífislopti *(Kvælstof)*.

Náttúrufróðir menn greina banvænar loptstegundir á ýmsa vegu, og eru þessar hinar hellstu: *a*) svæfandi loptstegundir; *b*) kæfandi loptstegundir; *c*) kæfandi og svæfandi loptstegundir; *d*) deyfandi loptstegundir og sóttnæm gufa, er leggur af sjúkum mönnum.

*a*) Svæfandi loptstegundir finnast í aungun ýmissra jurta, til að minða svefn jurtarinnar *(opium)*, fjögralaufasmárans, holtasóleyarinnar og njaðarjurtarinnar. Ásamt svefnjurtinni, eru ýmsar útlendar jurtir, svosem saffran, tóbak, og margar aðrar, er hafa sömu náttúru. Brennivíns gufan, kamfóru gufan og vín gufan, eru einnig taldar með hinum svæfandi loptstegundum.

*d*) Kæfandi loptstegundir finnast í málmnámum, brennisteinsnámum, salts- og saltpètursnámum, og eru þær ekki sjaldgæfar á Íslandi þar sem málmar leynast í jörðu. Er það ætlan mín, þótt ekki viti jeg vissu á því, að þessar loptstegundir hafi opt orðið bráðkvöddum mönnum að bana á landi þar, er og ekkert líkara enn, að skýið sem á seytjándu öld og fram á hina átjándu drap fólkið á Siglufjarðarskarði, hafi verið einhvör kæfandi loptstegund.

*c*) Kæfandi og svæfandi loptstegundir eru þessar: kolareykur, steinkolareykur, ljósreykur, lýsisreykur, tjörureykur, vaxreykur og terebintínolíureykur. Gufa af rotnuðum dýrahræum, líkkistum, gröfum í kirkjugörðum, úldnum fiski og kæstum hákalli, ásamt loptstegundum þeim sem finnast í læstum útihúsum, kirkjum, sæluhúsum, djúpum gryfjum og brunnum, telst og meðal þessara loptstegunda.

*d*) Deyfandi loptstegundir eru: gufa af bræddu blýi og kvikasilfri. Sóttnæm gufa er algeng hjá veikum mönnum sem liggja í drepsótt (*Pest*), rotnunarsótt, bólu, doðasótt, skarlatssótt flekkusótt, og blóðsótt.

Auk áðurtaldra loptstegunda ern það optast annaðhvört ólífislopt (*Stikstof*) vatnslopt, eða kolasýrulopt (*Kulsyret-gas*) sem kæfa menn. Ólífisloptið gjörir mann magnlausann, ollir svíma og hleypir út svita; kolasýruloptið kæfir lopta fyrst í fáum andköfum; vatnsloptið ollir svefni svíma og ríngli, og er þar að auki í því ólíkt hinum loptstegundunum, að í því kviknar ef ljós er aðborið.

Þegar einhvör hefir kafnað inni í húsum, niðri í brunnum, gryfjum, eða gröfum, þá er eigi ætíð hættulaust að bjarga honum, nema menn sèu útbúnir sem vera ber, í gègn hinum banvænu loptstegundunum. Allra fyrst er því verður viðkomið skal prófa loptstegundina, verður það með því móti að menn taka lánga staung, binda um annann enda hennar hampi eða fífu, væta endann í tjöru, og kveykja á honum. Sá sem ætlar að bjarga enum káfnaða, skal nú

hafa staf þenna fyrir sèr, og vita hvört tjöru- eða fífukindillinn lifir eða sloknar. Slokkni ljósið, þá er það merki þess að ólífislopt er í nánd, enn komi blossi svo að loptið logar umhverfis, þá vita menn að vatnsefnislopt (*Brint*) er umhverfis hinn kafnaða, því loptstegund þessi hefir þá náttúru, að hún logar; brenni ljósið sem áður þá er engin hættuleg loptstegund í nánd. Sá sem bjarga ætlar köfnuðum, þar sem banvænar loptstegundir eru í nánd, skal svo útbúinn að hann hafi vasaklút fyrir vitum sèr, og sè hann vættur í salmiaksdropum, ediki eða sýru, einnig skal hann drekka lítið eitt af brennivíni eður ediki, og halda því í munni sèr á meðan hann bjargar enum kafnaða, og flytur hann í hreint lopt.

Merki til að manni liggi við köfnun eru þessi: andardrátturinn verður erfiður og er megn ótti samfara hvörju andartaki, í höfuðið kèmur þýngslaverkur með svíma og drúnga, manninum sýnist því næst eldneistar bera fyrir augun, og er þá allnær að hann falli í ómeginn og liggji sem anðvana lík. Kafnaðir eru svo útlits að augun standa út og eru mjög rauðleit, andlitið er dökkrauðt og hálsæðarnar þrútnar, varirnar eru bláleitar, túngan þrútin og bláleitir blettir sjást hèr og hvar á líkamanum.

Alla kafnaða skal færa sem fyrst frá þeim stað hvar þeir hafa kafnað, og því næst gjöra þessar endurlífgunar tilraunir. Opna skal æð í olboga bót og láta blæða talsverðt, þessunæst skal hinn kafnaði vermdur á líkann hátt og áður er frá sagt um druknaða og hengda, einn-

ig skal blása í hann lopti og núa líkamann með vermdu ediki, sýru eða brennivíni uns lífsmark finnst með honum, og að öðrulagi fara að sem við druknaða. Sú er ein aðferð sem algeng er erlendis við endurlífgun druknaðra, hengdra og kafnaðra, enn það er að blása inní lúngun lífslopti, er fæst í lifjabúðum (*Apothek*), þó þessu sè nú ekki ætíð auðnáð á Íslandi þar sem lifjabúðir er svo fáar, gætu menn með tímanum lært að tilbúa það, eptir máta þeim er frá er sagt í lifsala bókum.

Því er eins varið með kafnaða sem druknaða, að lengi gètur lífið leynst með þeim, og má því með engu móti grafa þá fyrr enn fullkomin rotnunarmerki sjást á líkamanum.

---

## Þrumulostnir.

### Og endurlífgan þeirra.

Þegar reiðarþrumu slær niður á menn, eða nálægt þeim, falla þeir í dá að augabragði; ollir það því að þruman skèkur mænukèrfið (*Nervesystemet*), svo það verður magnlaust og fær eigi gjört ætlunarverk sitt. Þegar þrumulostinn maður finnst á víðavángi, er dauðdagi hans auðþektur á því, að merki eru til að þrumunni hefir slegið niður nálægt manninum, föt hans eru sviðin eða brend, og *fosförs* þefur er af líkinu og klæðunum. Það varðar miklu hvar þrumunni hefir slegið á líkamann, hættulegust er hún þegar höfuðið eða brjóstið verður fyrir henni, minni hætta er á ferðum þegar þruman einasta hefir snortið útlimina.

Bjarga má þrumulostnum mönnum til lífs aptur á þann hátt, að menn flytji þá svo fljótt sem verður í hreint lopt, losi um þá fötin, byrgji þá allt að höfði með heittum sandi eða vermdum rekkjuvoðum, og blási lopti eða lífslopti inní lúngun, eins og áður er fyrisagt um druknaða. Sumir hafa ráðlagt að núa þá með smyrslum, tilbúnum úr olíu og saltsýru til helmínga, núa smyrslum þessum inní líkamann með flötum lófa, eða vermdum ullarpjötlum. Til þess að espa mænukèrfið og auka því fjör, skal dreypa á hinn skindauða dálitlu af hoffinansdropum eða brennivíni, einnig skal salmiaksdropum haldið fyrir vitunum, eður ef þá vantar, þá blóðbergi. Þegar líf fer að færast í líkamann, skal næra hinn þrumulostna á einhvörju lífgunar meðali svosem kaffe, blóðbergsvatni eða messuvíni. Kvarti hinn endurlífgaði yfir höfuðverki eða svíma, skal taka honum blóð á handleggi, og ausa köldu vatni yfir höfuð honum, sè honum þúngt um andann, má einnig taka blóð á handleggi, og gjöra honum volgt fóta bað.

Engan þrumulostinn má grafa fyrrenn áður nefndar endurlífgunar tilraunir eru gjörðar árángurslaust, og rotnunarmerki hafa látið sig í ljós á líkinu.

---

## Hrapaðir.

Það mun öllum auðsært að bjarga verður hröpuðum mönnum svo fljótt sem má, skal flytja þá að bæum heim, með mikilli varúð, leggja þá í rúm og fletta klæðum, þó með var-

hygð, svo ekki saki ef maðurinn hefir beinbrotnað einhvörstaðar á líkamanum. Því næst skal ransaka allann líkamann, og nákvæmlega aðgæta hvar meiðslin sèu sem mest, mega menn ekki láta hugfallast þó maðurinn sè ærið skèmdur, eður ekki sjáist lífsmark með honum; skal nú þessu næst gjöra endurlífgunar tilraunina, á líkann hátt og fyrr var ritað um kafnaða, ríður einkum á, að reyna undir eins til að opna æð, og blása lopti inní lúngun. Höndum skal farið um höfuðið og kroppinn, og vel aðgætt hvört ekki sèu beinbrot á höfði eða brjósti. Finni menn nú að höfuðið sè dalað á einhvörjum stað, verður að reyna til að koma brotunum í samt lag. Sama er að segja um brínguheinið og rifin ef þau eru brotin, að það liggur mjög á að rètta brotin, svo þau ekki þrýsti á lúngun eða hjartað, enn með því þetta er allopt ekki annarra meðfæri enn handlækna, þá ríður á að sækja lækni til aumíngja þessara, svo fljótt sem verða má.

Gèti menn ekki náð til læknis, eða verði að líða mjög lángt um áður enn hann gèti komið, skal án tafar reyna til að koma brotunum í samt lag; þvínæst skal taka enum hrapaða blóð á handleggi eða hálsi, og láta blæða talsverðt; verma skal líkama hans sem best má, blása lopti inní lúngun, og að öðru leiti fara að sem áður er sagt um kafnaða. Það eru einkanlega þrír sjúkdómar, sem verða þeim er hrapað hafa og dottið að bráðum bana, eða gèta að minsta kosti ollað þeim dauða að nokkrum tíma liðnum, þeir eru þessir: 1) Heila klemma *(Tryk paa Hjernen, Compressio*

*cerebri)*; 2) Heilaröskun, *(Hjernerystelse, Commotio cerebri)*; og 3) Mænu klemma. *(Compressio medullæ spinalis)*.

1) Heila klemman kèmur af því, að eitthvað þrýstir á heilann til að minda beinbrot, blóð eða gröftur. Aðkènníngar sjúkdómsins eru á ýmsa vegu, allt eptir því hvað mikil brögð eru að honum; sèu aðkènníngarnar í minna lagi, þá finnur sjúklíngur einasta til höfuðverkjar og svíma; hefir hljóð fyrir eyrum, honum sortnar fyrir augum, og hann gètur varla hrært sig. Sèu meiri brögð að sjúkdóminum fellur sjúklíngur í djúpann dvala, og verður ekki vakinn; liggur hann þá með hrotum og þúngum andardrætti, lífæðin slær mikinn og þó óreglulega, augun eru þrotin og bærast ekki, í kroppinn koma ákafar sinategjur, þvagið og saurinn gánga af sjálfu sèr að sjúklíngi óvitanda, og fari allt þetta vaxandi deyr hann að nokkrum dögum liðnum.

Það er bágt að segja hvörja endalykt sjúkdómur þessi ætíð muni fá, því mikið er komið undir því, hvört tilefni hans verður útrýmt eður ekki. Þrýsti eintómt blóð á heilann og olli það kvillanum, er mikils von af blóðtökum og volgum fótaböðum; þrýsti beinbrotin á heilann er öll lífs von mjög hæpin, nema þeim verði lypt upp frá heilanum og komið nokkurnvegin í samt lag; sè gröftur eða vatn inni í höfðinu, sem komið gètur af bólgu í heilahimnunum og heilanum sjálfum, þá er best að leggja stórann spanskflugna plástur aptan á hálsinn og láta grafa í honum vel og lengi. Eigi má gèfa þeim er þjást af þessum sjúkdómi,

hressandi meðöl, svosem vín, brennivín kaffe eða Hoffmannsdropa, en einkar gott er þeim að menn baði höfuð þeirra iðuglega með klaka eða köldu vatni, og setji þeim stólpípu.

2) Heila röskun; þeir sem detta ofan af hæð, eða verða fyrir því að eitthvað falli í höfuð þeim, missa annaðhvört sálar öblin að nokkru leiti um stundarsakir, eða detta, ef meira hefir af orðið, strax dauðir niður. Hafi menn eptir fall einúngis fengið aðkènníngu af sjúkdómi þessum, þá eru merkin þessi: sjúklíngur kvartar um suðu fyrir eyrunum, svíma og rænuleysi í höfðinu, og svefndrúnga og magnleysi í öllum kroppnum. Hafi meira af orðið liggur sjúklíngur í djúpum dvala, andlitið verður hvítbleikt, hendur kaldar og eins fætur, lífæðin slær linlega en þó reglulega, sjáaldrið breytist ekki þó ljós sè aðborið, andardrátturinn heyrist valla og líkaminn er að eins lítið volgur, opt eru líka sjúkdómi þessum samfara megn uppköst. Hafi heila röskunin orðið ógurleg, þá dettur sjúklíngur í sama vetfángi dauður til jarðar. Heila röskunin kèmur af því sem áður var sagt, detta ofanaf hæð, annaðhvört á höfuðið, bolinn eða fæturna, eður eitthvað þúngt dettur á höfuðið. Á höfðinu sjálfu og heila kúpunni eru stundum alls engin merki, þó sjúklíngur hafi strax dottið dauður niður, og hefir þá samt röskunin ein ollað dauða hans.

Á lýsíngunni (svosem áður er sagt), er sjúkdómur þessi auðþektur frá heila klemmunni, er hann í raun rèttri engu hættuminni, og er optast, þótt mönnum skáni, mjög láng-

vinnur. Lækníngarmátinn við þessum kvilla er að því leiti ólíkur hinum, er fyrr var tilgreindur við heila klemmunni, að gjarna má gèfa sjúklíngi upplífgandi meðöl, svosem Hoffmannsdropa, vín, moskusdropa, blóðbergsvatn og annað því um líkt. Allann líkamann skal þvo í brennivíni eður ediki, og leggja stórann spanskflugnaplástur á höfuðið eða milli herðanna; einnig skal opna sjúklíngi æð í olboga bót og láta blæða lítið eitt, svosem svari hálfri mörk í senn eða minna. Vilji blóðið sækja ofmjög til höfuðsins, má um fram allt eigi undan fella, að hafa kalda bakstra við höfuðið, og skipta um þá tíunðu hvörja mínútu, uns sjúklíngi finnst sèr svía í höfðinu. Kvarti hinn sjúki um sífelda velgju, er best að gèfa honum uppsölumeðal. Bæði hinum fyrra sjúkdóminum og þessum er þannig varið, að eigi þola sjúklíngar nema lètta fæðu, uns þeir að kalla eru orðnir albata.

3) Mænuklemma (*Compressio medullae spinalis*). Þegar menn hafa dottið á bakið, þá er það eigi sjaldgæft að þeir verða magnþrota í fótum eða handleggjum. Ber stundum svo við, að magnleysið eigi byrjar fyrr enn nokkuð er frá liðið eptir fallið, merkist þá í fyrstu stríðleikur og verkur í bakinu, þar sem fallið kom á, hverfur verkur þessi stundum vonum bráðar, en í stað hans sækir magnleysi og dofi, eða hvört tveggja, bæði hendur og fætur, og er þá að óttast að visnan (*Paralysis*) komi á eptir. Það er því nauðsynlegt, þegar einhvör hefir dottið á bakið og merki sjást til magnleysis eða dofa í útlimunum, að menn strax gèfi gaum að þessu, og leiti hinum veika hjálp-

ar í tíma. Allra fyrst skal taka sjúklíngum þessum blóð á handleggi í olboga bót, og láta blæða ríflega (svosem svari einni mörk eða meiru), því næst skulu blóðsugur settar á bakið þar sem verkurinn er, eða hinum veika tekið dreifar- eða hornblóð beggja megin við hriggjarliðina, og skal þetta allt gjört óspart uns verkurinn eða stirðleikurinnn í bakinu linast, eður hann hverfur að mestu. Vilji magnleysið og dofinn í höndum og fótum ekki fara mínkandi þrátt fyri þetta, skal þvo fætur og handleggi í ediki eða volgu brennivíni nokkrum sinnum daglega, skal og þar að auki setja hinum veika stólpípu (með hafraseiði salti og olíu eða smjöri), og gèfa honum uppsölumeðal af vínsteini. Þegar búið er að þessu og vilji samt eigi hrífa, skal brenna hinn veika (annaðhvört með sjóðheitu vatni eða spönskum flugum) á bakið, og láta grafa í lángann tíma; mega menn ekki gèfast upp við þessar tilraunir þó ekki tákni strax, heldur halda þeim áfram í lángann tíma uns kvillanum linnir. Verði alvisnan úr þessu, eru engin önnur ráð enn brenna sjúklíng eptir endilaungum hriggnum, og láta grafa í sárinu lángann tíma, skal þá við og við strá í sárið hálfu grani af dupti því er kransaugna frumefni heitir *(Nitras strychni)*, og fæst í lifjabúðum. Sjúklíngum, þeim er þjást af kvilla þessum, verður að gèfa lètta enn þó nærandi fæðu, til að minda, lambakjöts eða kálfakjöts súpur með kúmeni í eður engiferi, einnig skal að gætt að þeir daglega gèti haft hægðir, og komi þær eigi af sjálfum sèr, verður að örfa þær með stólpípu

eða meðölum sem auka hægann þarfagáng, má til þess velja lifjaber *(Piller)* þann veg til búin: ℞ *Aloes succotrinæ. Saponis aliacantini āā* ℥ij. *Gummi masticis. Extracti radicis rhei āā* ℥j. *Radicis ipecacuanhæ gr. xii. M. f. l. a. Pilulæ pondere gr. iii semine Lycopodii conspergendæ.* D. s. Losandi lifjaber af hvörjum að taka skal 3 eða 4 í einu, einusinni á dag.

---

## Endurlífgun bráðdauðra.

Þegar menn detta niður alt í einu bráðdauðir án þess nokkur viti tilefni til, eða finnast bráðkvaddir á víða vángi, er ekki ætíð hægt að vita hvað þeim hefir orðið að bana. Endurlífgun slíkra manna skal reynd með þeim hætti, sem nú segir.:

1) Fyrst skal afklæða manninn og leggja hann í volgt rúm, og það svo, að hátt sè undir höfði, eða færa hann í volgt bað allt að höfði, og er það öllu betra; því næst skal reyna til að opna æð í olboga bót eður á hálsinum, og láta blæða sem svari hálfri mörk.

2) Vilji ekki blæða, skal núa líkamann vel og vandlega með ullar leppum, svo að byrjað sè á útlimunum og strokið uppeptir þeim, tíðt og þètt, á móts við hjartað.

3) Reyna skal til að blása lopti ofan í hinn bráðdauða á líkann hátt og áður er sagt um druknaða.

4) Þefmiklum meðölum, svosem salmíaksdropum, edíki, lífsbalsami eða blóðbergi, skal

haldið fyrir vitum hins dauða, og á hann dreypt hoffmannsdropum, kamfórndropum eða lífsbalsami; skal öllu þessu framhaldið með mikilli þolinmæði og í lángann tíma.

5) Setja skal honum stólpípu með volgu vatni og ediki eða sýru.

6) Finnist lífsmark með honum, skal dreypa á hann dálitlu af messuvíni, eða sè það ekki til, þá sterku blóðbergsvatni, eða ediki.

Þegar bráðdauðir menn finnast á víðavángi, skal fyrst aðgæta hvört enginn vegsummerki sjáist á líkamanum, svosem hengíngar eða köfnunar merki, finnist þau skal eins að fara og áður er frásagt um hengda og kafnaða.

Engann bráðdauðann má jarðsetja fyrr enn óbrigðul rotnunarmerki sjást á líkinu.

---

## Heilablóðfall (*Slagflod*).

### (*Apoplexia v. hæmorrhagia cerebri*).

Blóðfall að heila, er ástundum svo bráðdrepandi sjúkdómur, að rètt virðist að gèta hans hèr, því það er opt bágt að nálgast lækni á Íslandi svo fljótt sem þarf, og er því nauðsynlegt að menn viti nokkurnveginn hvað gjöra skal, þegar svo bráð nauðsyn ber til að hjálpa manninum. Merki sjúkdómsins eru þessi:

Maðurinn sem blóðfallið ætlar að fá finnur fyrst til svíma og þýngsla í höfðinu, er því optastnær samfara höfuðverkur og suða fyrir eyrum einkanlega þegar sjúklíngur beygir sig frammávið, stundum er þessu samfara velgja og klýa með ónotum fyrir bríngsmölunum,

geispum og svefndrúnga. Þegar þetta hefir varað nokkra stund (og ástundum án þess þessir fyriboðar láti sig í ljósi), vita menn ekki fyrr til enn maðurinn dettur um koll allt í einu, og liggur sem dauður með hrotum og froðufalli og veit alls ekki af sèr. (Sá er mismunur á þessum sjúkdómi og bráðdauða eður aungviti, að maður heyrir andardrátt hins veika og finnur að lífæðiu slær stundum býsna harðt, er sjúkdómur þessi einnig auðþekktur frá niðurfallssýki (*Epilepsie*) á því, að sjúklíngur liggur grafkyrr og berst alls ekki um með höndum eða fótum); þegar sjúklíngur er dottinn um koll liggur hann sem í djúpum dvala, og andardrátturinn er seinn og hægur, lífæðin slær hægt og seint, eður harðt og tíðt; munnurinn er optast skakkur og dregst útá aðra hvörja hliðina, andlitið er rauðt, þrútið og bólgið, augun standa út og eru rauðleit, stundum lukt og stundum opin, einstaka sinnum sjást kipríngar í vöðvunum, einkum í andliti og á hálsinum, útlimirnir kippast og stundum dálítið við, en aldrei ber sjúklíngur þeim út frá sèr, stundum raknar hann við eptir stundarkorn eins og úr roti, en stundum liggur hann í marga daga sem í djúpum dvala. Eptir atferli og ofsa sjúkdóms þessa gjöra menn þrjá greinarmuni á honum; þegar sjúkdómurinn hefir áðurtalin einkènni, kallast blóðfallið algjörlegt (*Apoplexia exquisita*). Þrumandi blóðfall (*Apoplexia fulminans*), kallast sjúkdómurinn þegar hinn veiki rýkur um koll og deyr að litilli stundu liðinni, þarámóti kallast blóðfallið ekki algjörlegt (*Apoplexia imperfecta*), þeg-

ar sjúklíngur alltaf veit af sèr, eða fellur einúngis í mjög stuttann ómegin.

Tilefni sjúkdóms þessa eru ýmisleg, og er mikið komið undir líkama byggíngunni, þannig er hálsstuttum mönnum og höfuðstórum hættara við blóðfalli enn öðrum, einnig er blóðríkum og feitum hættara við því enn blóðlitlum og mögrum. Að öðruleiti eru tilefni sjúkdómsins þessi: ofát og ofdrykkja, ofmikil kaffe víns og brennivíns drykkja, ofmikill lestur og heilabrot, einkum hjá þeim sem hafa þann ávana að lúta ofmjög, óþægilegar gèðshræríngar, oflángur svefn, ofmikið kvennafar;, að hafa offast um hálsinn, harðlífi, gylliniæðaveiki, iktsýki, flúggigt (*Rheumatismus*), tíðateppur eða blóðnasir; nautn eiturjurta svosem Opiums, *Hyoscyamus* etc. ofmikill sólar-eður ofn hiti, ákaflega heitar laugar.

Sjúkdómur þessi gètur tekið mörg horf, er hann jafnan hættulegur, því þó menn fái bugað hann er honum opt samfara magnleysi (*Paralysis*), í útlimum eður á ýmsum stöðum líkamans, og fái maðurinn optar enn svari tveim sinnum aðkast af honum, er sjaldan lífsvon. Þó það sè ekki svo almennt þá vill samt stundum svo til, að sjúkdómur þessi byrjar fyrst í fótunum og færist svo smátt og smátt upp eptir kroppnum, er hann engu hættuminni fyrir það, og veldur optast óráði er hann nær höfðinu, og stundum málleysi og þefleysi. Vilji sjúklíngur vera hlýðinn og reglubundinn, og fái hann rètt hjálparmeðöl í tíma, er enganveginn að örvænta að honum gèti batnað. Lækníngar mátinn er þessi:

1) Sjúklíngur skal strax tekinn og lagður endilángur uppí rúm, og sè hlaðið koddum undir höfuð honum svo hann sitji sem uppvið herðadýnn; eigi má hann liggja þar sem heitt er eða spillt lopt, og liggi hann í volgu húsi eða baðstofu lopti, skulu gluggar opnaðir svo súg leggi í andlit honum.

2) Þegar búið er að leggja sjúklíng í rúmið, skal losa um hann öll fötin og taka af honum hálsdúkinn.

3) Þessu næst skal taka honum blóð án tafar á handleggi í olboga bót, og láta blæða rúma mörk eða hálfa aðra ef maðurinn er feitur og blóðríkur; að dægri liðnu skal aptur taka blóð, og láta blæða litlu minna enn fyrr. Þar á ofan skal setja blóðsugur aptan og neðanverðt við eyrun, eða taka hornblóð aptan á hálsinum.

4) Til að fá blóðið frá heilanum, skal nú ennfremur. *a*) leggja kalda bakstra á höfuðið; *b*) setja sjúklíngi stólpípu með hafraseyði salti og bræddu smjöri nýu; *c*) leggja volga bakstra við fæturna og núa handleggi og fætur með lèrepts þurku vættri í ediki eða sýru.

5) Þegar hinn veiki fer að rakna úr rotinu, skal gèfa honum saltpètursblöndu (***Mixtura nitrosa***), sem svari tveim matspónum, aðra hvörja klukkustund; hafi hann ekki fengið hægðir má einnig gèfa honum búkhreinsandi meðal.

6) Sjúklíngur má allsekki drekka annað en kaldt vatn, eða vatn blandað hvítu sikri og Sítrónu vökva (***Lemonade***). Ekki má hinn veiki borða annað enn lèttmeti, svosem, hafrasúpu

eða byggsúpu, eða vatnsgraut og soðinn fisk, og aldrei mikið í senn.

7) Verði sjúklíngur hálfvisinn eptir heilablóðfallið, skal leggja spanskflugnaplástur á útlimi þá er magnlausir verða og þar á ofan skal taka hornblóð aptan á hálsinum eða milli herðanna; líka eru steypiböð einkar holl þessum sjúklíngum, eins og fyrr er gètið um kalda vatnið.

Þeir sem einusinni hafa fengið heilablóðfall, verða að varast tilefni þess, um hvör áður er gètið.

## Mænublóðfall.

(*Apoplexia spinalis v. hæmorrhagia spinalis*).

Sjúkdómi þessum er svo varið, að blóð safnast fyrir kríngum mænuna á líkann hátt og það gjörir í heilablóðfallinu í heilanum, og eru einkènni sjúkdómsins þessi: Sjúklíngur finnur fyrst til verkjar sem optast heldur sèr föstum í spjaldhriggnum, fylgja honum sinategjur og ónota tilfinníng í útlimunum með dofa og köldu. Þegar sjúkdómurinn fer vesnandi, verður sjúklíngur magnlaus og tilfinníngarlaus í útlimunum, byrjar magnleysið optastnær í fótunum og færist smátt og smátt uppeptir líkamanum uns hinn veiki verður hálfvisinn, má það verða með tvennu móti, því annaðtveggja verður sjúklíngur magnlaus í fótunum (*Paraplegia*), eður önnur helft líkamans verður magnlaus og tilfinníngarlaus frá hvirfli til ilja (*Hemiplegia*); fylgir henni allopt málhelti af því að túngan verður hálf magnþrota.

Tilefni kvilla þessa eru lík og áður er frá sagt um heilablóðfallið; algengust eru samt þessi: gylliniæðaveiki, tíðateppa, bilta á bakið, lauslæti, ofmiklar kyrrsetur og ákafur kuldi.

Lækníngarmátinn er líkur þeim er um var gètið við heilablóðfallið, ríður mest á að mínka blóðið í mænunni og skal því hornblóð tekið þar sem verkurinn hefir byrjað í hriggnum, beggja megin við hriggjarliðina, því næst sè sjúklíngnum gèfið uppsölu- og búkhreinsandi meðöl og þau ítrekuð tvisvar eða þrisvar sinnum í hvörri viku, uns hinum veika fer að skána. Þess er áður gètið að steypiböð èru einkar góð við sjúkdómi þessum, og má þau brúka sem fyrr segir.

---

## Lúngnablóðfall (*Stikflod*).
### *Apolexia pulmonum.*

Lúngnablóðfallið er hættulegur og bráðdrepandi sjúkdómur; ollir það honum að blóðið stíblast í lúngunum og kèmst eigi áfram til hjartans svo manninum liggur við köfnun ef ekki er aðgjört í tíma. Einkènni sjúkdóms þessa eru svo: að fyrst finnst manninum sem heitu vatni sè skvett yfir brjóst honum, því næst kènnir hann andþrengsla og hræðslu og þorir ekki að halda kyrru fyrir vegna nokkurskonar óþola, fer þetta allt vesnandi ef sjúklíngur leggur sig til hvílu, enn verður skárra ef hann er á fótum og fer út í kul, andlitið þrútnar, varirnar verða blálcitar, og köldum svita slær út um líkamann. Lúngnablóðfallið

er að því leiti líkt heilablóðfalli að tveir eru hættir þess, því annaðhvört deyr sjúklíngur vonum bráðar ef eigi er við gjört, og kallast sjúkdómurinn þá bráðdrepandi lúngnablóðfall, eður hann er vægri og endar með því að sjúklíngur fær ákafa blóðspýu.

Tilefni lúngnablóðfallsins eru ýmisleg, almennast kèmur það af ofmiklu blóðríki eða hjarta sjúkdómum sem aptra rás blóðsins frá lúngunum til hjartans, tilaðminda þegar hjarta lokurnar (*Valvulæ cordis*) verða að beini; ýmsir örfandi drykkir, t. a. m. brennivín, kaffe, vín og öll áfèng ölfaung gèta ollað sjúkdómi þessum; líka hefir hann stundum komið af ofmiklum kyrrsetum, einkum ef maðurinn lifir munaðar lífi, og hefir slæmar hægðir; líka eru dæmi til að menn hafa fengið lúngnablóðfall af áköfum uppköstum.

Lækníngarmátinn er að mestu leiti innifalinn í því að taka sjúklíngi blóð, og láta blæða uns honum verður lèttara um andrúmið. Því næst skal setja honum stólpípu með volgu vatni, salti og bræddu smjöri í, og láta hann drekka kaldt vatn eður saltpètursblöndu (*Mixtura nitrosa*), ef hún gètur fengist, og takist af henni 2 spænir þriðju hvörja klukkustundu. Batni sjúklíngi í bráð en vilji köstin koma aptur, skal honum blóð tekið að nýu, og ætíð látið blæða uns honum svíar. Menn sem hafa kènnt sjúkdóms þessa mega varast allt ofát og ofdrykkju, ekki mega þeir heldur drekka kaffe eður áfenga drykki. Ýmsir læknar hafa ráðlagt að gèfa sjúklíngum þessum uppsölumeðal eptir blóðtökuna, og má það að vísu koma að góðu

gagni ef sjúklíngur ekki er ofsa blóðríkur og sjúkdómurinn eigi uppsprottinn af hjartveiki (*Morbus cordis*).

---

## Aungvit (*Lipothymia*).

Aungvit gèta ástundum orðið hættuleg, einkum ef þau vara lengi eða koma af ofmiklum blóðmissi. Tilefni þeirra gètur verið margvíslegt svosem hræðsla, reiði, hjartveiki, blóðmissir, óheilnæmt lopt, megn óþefur og ofsa hiti. Lækníngarmáti þeirra er að mestu leiti innifalinn í því að losa um andrúm sjúklíngsins, láta komast að honum loptkul, skvetta á brjóst og andlit honum köldu vatni og dreypa á hann Hoffmansdropum, lífsbalsami, kamfórudropum eða messuvíni.

Komi aungvit af ofmiklum blóðmissi ríður umfram allt á að stöðva blóðrásina svo fljótt sem verða má.

---

## Eitur (*Venena*).

Eitur eru marg háttuð og drepa með ýmsu móti. Verkun þeirra er annaðhvört svo varið að þau olla bólgu og dauða í þörmunum, (*Venena acria, v: corrosiva*); eða þau svæfa, (*Venena narcotica*); eða þau olla uppdráttar i kroppinum, (*Venena exsiccantia*).

1) Etandi eitur tegundir (*Venena corrosiva*), eru flestar úr málmaríkinu, þó finnast nokkrar á meðal þeirra í jurtaríkinu,

eru þessar hinar hellstu: *a*) Völskueitur, (*Arsenicum*, Rottekrudt). *b*) Etandi kvikasilfur, (*Mercurius corrosivus, Sublimat*). *c*) Vítissteinn, (*Lapis infernalis*). *d*) Spanskgræna, (*Aerugo viridis*). *e*) Járn- og kopar- og pjáturs viktril, (*Vitriolum martis cupri et Zinci*). *f*) Brunasteinn, (*Lapis causticus*). *g*) Brennisteinssýra, (*Acidum sulphuricum*). *h*) Saltsýra, (*Acidum muriaticum*). *i*) Saltpèturssýra, (*Acidum nitricum*). *k*) Skeiðvatn, (*Aqva regia*). *l*) Fosfór, (*Phosphorus*). *m*) Etandi kalk. *n*) Saltsúr þúngajörð, (*Terra ponderosa salita*). *o*) Skammonium, (*Convolvulus scammonia*). *p*) Sabadillufrækorn, (*Semen sabadillæ*). *q*) Hófblaðka, (*Calta palustris*). *r*) Brennisóley, (*Ranuncus acris*). *s*) Spanskarflugur, (*Cantharides*).

Verkunum allra etandi eiturtegunda er þannveg varið, að fyrst finnst til bruna á túngunni og í hálsinum, þessu næst kèmur sviðaverkur í allann hálsinn og undir flagbrjóskið, ásamt klýu, mjög áköfum uppköstum og kvöl í maganum og öllu holinu. Sjúklíngurinn kvelst þaraðauki af áköfum þorsta, kölduhrolli og óstyrk í öllum kroppnum; magaverkurinn fer æ vesnandi og er honum samfara blóðlitaður vallgángur; andlitið og yfirliturinn breytist stórum svo sjúklíngurinn verður magurleitur og aumkunarlegur útlits; magaverkurinn vex svo að hinn veiki þolir ekki af sèr að bera, lífæðin slær lint en mjög tíðt, sjúklíngurinn fer að tala í óráði og fær aungvit, að lokunum linar kvölinni rètt undir dauðann sem

kèmur annaðhvört innan fárra stunda, eða fárra daga.

2) Svæfandi eitur, (*Venena narcotica*). Tegundir þessar finnast að mestuleiti í jurtaríkinum, eru þær að því mismunandi, að ísumum þeirra er etandi frumefni (*Principium narcotico-acre*), og kallast þessvegna etandi og svæfandi eiturjurtir (*Venena narcotico-acria*). Svæfandi eiturjurtir eru þessar: *a*) Svefnjurt, *Opium*, (*Papaver somniferum*). *b*) Melasól, (*Papaver nudicuale*). *c*) Krossagras, (*Paris qvadrifolia*). *d*) Kirsuberja trè, (*Prunus laurocerasi*). *e*) Píkuepli, (*Datura strammonium*). *f*) Stórkonan, (*Atropa bella donna*). *g*) Loðnajurt, (*Hyoscyamus niger*). *h*) Eitursalat, (*Lactuca scariola et virosa*). *i*) Blásýra, (*Acidum borussicum*). Hinar helstu svæfandi og etandi eitur jurtir eru þessar: *a*) Kransauga, (*Nux vomica*). *b*) Tóbak, (*Nicotiana tabacum*). *c*) Skarnjurt, (*Cicuta virosa*). *d*) Rauðarfi, (*Anagallis arvensis*). *e*) Jarðeplagras, (*Solanum tuberosum*). Flestar af þessum svæfandi jurtum er nú var um gètið, innibinda í sèr nokkurskonar frumefni sem öll eru mjög eitruð, kallast þau jurtafrumefni, (*Allkaloider*) og bera nöfn jurta þeirra af hvörjum þau koma. Verkun allra svæfandi eiturtegunda er mjög ólík að abli, þannig vita menn að tóbakið gètur með vananum orðið skaðlaust, og álíka er því varið með svefnjurtina (*Opium*), er Tyrkir eta, álíka og vèr tóbakið, að ósekju. Svæfandi jurtir gjöra menn syfjaða og drúngafulla, og batnar það von bráðar ef eigi hefir

verið notið ofmikils af þeim. Hafi menn þará-móti fengið stærri skamta, falla þeir annaðhvört í djúpann svefn og deya úr honum, eður á þá kèmur óráð og sinateygjur áður þeir deya. Lífæðin verður optast í fyrstu nokkuð ablmikil, andlitið bólgnar og roðnar, augun verða rauð og framstandandi, og blóðið ógurlega svartleitt eins og tjara. Sjálf Blásýran er í því ólík mörgum öðrum svæfandi eiturtegundum að hún drepur í einu vetfángi.

3) Uppdrætti ollandi eitur (*Venena exsiccantia*), eru að mestuleiti tilbúin úr blýi; fást þau í lifjabúðum og eru þessi: menja, blýhvítusikur (*Saccarum saturni*), (finnast stundum í þykku víni); blýsýra, (*Acetum saturninum*), blýhvíta (*Cerussa*), og blývatn (*Aqva saturnina*).

Verkun allra þessara blý-eiturtegunda, er svo varið, að þau veikja líkamann smámsaman, ónýta meltíngar ablið og olla óþolanda magaverki (*Blykolik*), svo sjúklíngur dregst upp og deyr úr nokkurskonar megrusótt.

## Lækrínga háttur við eiturbirlunum.

Þrennt verður að aðgæta þá er lækna skal eiturbirlanir; hið fyrsta er það, að út skal rýma eitrinu úr líkamanum svo fljótt sem verða má, þvínæst skal reyna til að veikja megn þess er eptir kynni að vera í líkamanum og, í þriðjalagi verður að aptra eitursins skaðlegu verkunum.

Etandi eiturtegundunum er svo varið, að þær olla megnri uppsölu, og þarf þessvegna

eigi að hafa nein önnur meðöl til að útrýma þeim úr líkamanum; en bæði til þess að sjúklíngi veiti hægra að selja þeim upp, og hið etandi megn þeirra (*Corrosive Virkning*) sljóist, verður að gèfa enum veika mikið að drekka af mjólk og olíu eða bræddu smjöri.

Enum svæfanði eiturtegundum er svo varið, að þær olla sjaldan uppsölu og verður því óðar að gèfa sjúklíngi uppsölumeðal, heldst af uppsölurót (*Radix ipecacuannhæ*), sem svari 1u eða tveimur *qvintimum;* þetta er betra enn að gèfa inn uppsölu vínsteininn (*Tartarus emeticus*), því hann veldur allopt niðurgángi í stað uppkasta, og er hann mjög skaðvænn margskonar eiturbirlunum.

Megn eiturs linast með ýmsu móti; við völsku eitri (*Arsenik*), er kolasýrujárn (*Carbonas ferri*), á seinni tímum álitið eitthvört hið besta meðal, og sè gèfið af því svosem svari lítilli teskeið í senn. Kvikasilfurs eitrin linast best með eggjahvítu, og við hinum etandi jurta eitrunum, er skást að láta sjúklínginn drekka mikið af olíu, lýsi eða bræddu smjöri; brædt smjör er og einna skást við spanskflugna eitrinu.

Á meðal hinna skaðlegu verkana er enar etandi eiturtegundir af sèr leiða, má telja ofsa bólgu og kaldabruna (*Koldbrand*), í hálsinum og maganum, við þessu verður eigi gjört með öðru móti enn því, að taka sjúklíngi blóð, setja blóðsugur og blóðhorn á hálsinn og hjartagrófina, og gèfa honum mikið að drekka af olíu, lýsi, eða bræddu smjöri, eins og áður er sagt.

Svefndrúnganum og dauðasvefninum, sem

sækir þá er fengið hafa ofmikið af hinum svæfandi eiturtegundum, verður eigi bægt með öðru móti enn því, að taka sjúklíngi blóð, setja honum stólpípu með vatni og ediki eða sýru, og einkum hafi hann tekið inn *opium*, að láta hann drekka sterkt Kaffe.

Verkanir hinna tærandi eiturtegunda, eyðast best með ensku salti (*Sal anglicanum*), og amerikaniskri olíu.

---

## Dauðdagi af völdum brennivínsdrykkju.

Þó brennivín megi eigi með eitri telja, þá eru samt nóg dæmi til, að ofdrykkja þess hefir ollað mönnum bráðs bana. Jeg hefi sjálfur verið sjónarvottur að því fyrir nokkrum árum á Íslandi, að úngmenni dó af því bráðum dauða, og er hörmúng að vita þegar svo fer, að menn sökum ákafans í það ætla sèr ekki hóf; það er valla að búast við öðru eptir því sem brennivínsdrykkja nú tíðkast á Íslandi, enn þjóðinni smátt og smátt fari hnignandi bæði í líkamlegum og andlegum efnum ef eigi eru rammar skorður við reistar, og að þeir sem landinu vilja vel, megi hafa hina sömu hugsun af brennivínsdrykkunni sem Eggert Ólafsson forðum hafði af stúlkunum, er hann kvað „píknaspilli." Jeg segi þetta ekki í því skyni að jeg búist við að margir muni láta skipast við orð mín í þessu, heldur til hins, ef það kynni að verða upphvatníngar hugvekja fyrir einhvörn þann er

vill landinu vel, svo hann reyndi til að aptra brennivíns ofdrykkjunni.

Við þá sem liggja dauðvona af brennivíns ofdrykkju, verður ekki mikið annað gjört enn taka þeim blóð, gèfa þeim inn uppsölumeðal, og láta þá undireins ofaná uppköstin drekka töluverðt af nýmjólk.

---

## Bráðdauðir af hákalls áti.

Menn hafa tekið eptir því, að þar sem hákalls át tíðkast svo, að menn lifa mest matar á honum, verður fólk opt bráðkvaðt. Það mun án efa vera skyrhákallinn er á mestann þátt í bráð-dauðanum sem svo opt hefir verið algengur í Stranda-sýslu í harðærum, því bæði er það að stækjufrumefnið (*Ammoniak*), sem í honum mindast, gètur orðið svo megnt að það verði að eitri, og ekki er hitt heldur ólíklegt að í honum kunni að mindast nokkurs konar blásýra, sem er eitthvört hið banvænasta eitur. Jeg gèt ekki sagt af egin reynslu, hvör merki sjást á líkum þeirra manna sem dáið hafa af hákalls áti, en eptir því sem mèr hefir verið frá sagt, eru þau líkust þeim er menn sjá á líkum þeirra er dáið hafa af blásýru eitri. Við þessum bráðdauða mun eigi mikið annað að gjöra enn forðast hákalls átið sem ollir honum; og það eina er þeim ráðandi sem íllt verður eptir of mikið hákalls át, að taka óðar inn uppsölu meðal.

---

## Ef í manni stendur.

Svo má stundum verða að standi í manni svo lífsháski sè búinn, og varðar þá miklu hvörnig háttað er. Sèu það hnöttóttir bitar af kjöti, sinum eða þessháttar, þá er sjaldan hætta á ferðum, því optastnær gengur bitinn þá annaðhvört upp eða niður; en standi þar á móti etthvað harðt í kverkunum eða hálsinum, svosem bein, steina-eða málmtegundir, þá er miklu meiri tvísýni á hvörnig fara muni.

Þá er blautur biti stendur í kverkunum eða hálsinum, þá hrekkur hann opt upp við það ef rekið er á herðarnar þèttíngs högg, eður ef maðurinn sem í stendur, stekkur ofan af einhvörju háu; sè bitinn kominn lángt niður í hálsinn hafa læknar mjóann sívalann skíðis prjón (*Nedstöder*), með njarðarvetti á endanum til að íta bitanum ofan í magann. Ef harðir hlutir svosem bein, járnbrot eður aðrar málmtegundir standa í manni, skal ætíð reyna til að ná þeim upp, annaðhvört með fíngrunum eða beygitaung sem er gjörð til þess, því verði það eigi þá er allopt mikil hætta búin, þó eru bein, ef þau á annaðborð komast ofan í magann, ekki hættuleg, má ástundum (ef þeim verður eigi náð upp) fá þau niður í magann, með því að gleypa stórann kjötbita eða smjörbita.

Verði bitanum sem í manni stendur hvörki þokað upp nè niður, þá eru eigi önnur ráð enn gjöra gat utan á hálsinn, en með því að það er eigi annarra meðfæri enn lækna, þá virðist óþarfi að fara fleirum orðum um þetta mál.

## Dauðamerki.

Það mun vera einhvör hin hræðilegasta tilhugsan fyrir hvörn lifandi mann, er honum dettur í hug að svo mætti fara að hann irði kviksettur. Dæmin eru því miður deginum ljósari uppá það, að þetta hefir við borið og því er öllum mönnum skyldt að abla sèr ljósrar þèkkíngar á dauða merkjum, en þau eru þessi:

1) Andardrátturinn hættir svo að eigi sèst móða á speigli, eða bærast á ljósi sem haldið er fyrir vitum hins dáuða, ekki heldur bærist vatn í íláti sem sett er á brjóst honum.

2) Lífæðin og hjartað hætta að slá, svo að eigi verður vart við hina minnstu hreifíngu á þeim, blóðið hverfur frá yfirborði líkamans og safnast fyrir í holunum, (*Legemets Hulheder*).

3) Ilur líkamans hverfur að nokkrum tíma liðnum, (þó er þessu ýmislega varið eptir ásigkomulagi hins dauða), og helkuldinn færist smámsaman yfir allann líkamann; með helkuldanum umbreytist hörundið og verður hvítbleikt að lit, auk þess fer og úr því stælíngin (*Elasticitet*), og verður merki eptir ef á það er þrýst.

4) Sjáaldrið (*Pupillen*), verður tilfinníngarlaust og hefir ljóss og sólar birta engin áhrif á það [1].

5) Hèrumbil einu dægri (stundum nokkuð fyrr og stundum seinna), eptir dauðastundina stirðnar líkaminn (*Rigor cadaverosus*), og þykir þetta eitthvört hið óbrigðulasta merki

[1]) Í lifanda lífi kippist sjáaldrið saman ef ljóss eða sólar birta skín á það

þess að maðurinn sè algjörlega dauður [1]); stirðleikinn kèmur fyrst í kjálkana og færist smámsaman yfir allann líkamann; þegar stirðleikinn er búinn að vera nokkra stund kèmur eptir hann linleiki (*Slappelse*) í allt líkið, og fara þá hvað af hvörju að detta dökkgrænir blettir hèr og hvar á það.

Þó að dauða stirðleikurinn sè vafalaust eitthvört hið óbrigðulasta dauðamerki, þá er hann þó stundum, til að minda á helfreðnum, druknuðum og þeim sem dánir erü af kransaugna eitri, ginklofa eða megrusóttum (*Typhus* og *Tærende Syge*), ekki med öllu einhlýtur.

6) Þá er dauðastirðleikinn er umliðinn, fer fyrst að verða vart við **nályktina** og líður þá eigi lengi áður rotnunarmerki fara að sjást á líkinu. Rotnunarmerkin láta sig fyrst í ljósi um holið, með þeim hætti að dökkgrænir blettir detta á það, og leggur þá af því ódaun.

Þegar öll þessi merki sem nú voru talin verða samfara, mun óhætt að álíta manninn algjörlega dauðann, þó ber þess að gèta, að mesta markið er að stirðleikanum og rotnunarmerkjunum, og ber engann þann að álíta dauðann sem ekki hefir stirðnað.

Áður enn jeg enda bæklíng þenna vil jeg biðja landa mína eins hlutar, enn hann er sá: að fara varlegar með nýdauða menn, enn híngað til hefir tíðkast á Íslandi, og eigi leggja þá til, undir eins og þeir hætta að draga andann, eða rífa þá uppúr volgu rúminu lítilli stundu

---

[1]) Sjá *Dr. Sommers Dissertatio de signis mortem hominis absolutam ante putredinis accessum indicantibus, Hafniæ* 1833.

eptir að þeir hafa tekið andköfin, — líkið skal látið liggja á bakið, kyrrt í rúminu með hátt undir höfði, og breiðt yfir það fötunum, þó svo að andlitið sè bert, og eigi skulu því veittar nábjargir, eður um það haggað, fyrrenn fullum sólarhríng eptir að maðurinn er skiliun við. — Jeg ámálga þetta, því mèr þykir miklu umvarða að eigi sè útaf brugðið, og mega þeir er svo gjöra ábyrgjast að þeir ekki, með heimskulegri meðferð sinni, hafi gjört útaf við hálfviðskila menn.

---

## Prentvillur.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 14du Bls. | neðstu | línu, | les: | ediki |
| 36u — | 4 | — | — | hví |
| 38u — | 17 | — | — | 4) |
| 42i — | 24 | — | — | *b*) |
| 50u — | 14 | — | — | tiundu |
| 61u — | 17 | — | — | *Ranunculus* |
| 64u — | 7 | — | — | svæfandi. |

